# X. Psalmur.

## Um̃ Fyrsta Ransak fyrer Kaipha.

Ton, Allt mitt Raad til Guds eg set, etc.

†

Til Hañas Hwsa HErrañ Christ, Hardraader Judar leiddu fyrst, beisk fraa eg Bond hañ sære, honum strax þadañ viisad var, Vidtekt fieck ei nie Hvilder þar, Miog svo þott mæddur være.

Burt sende þvi med beiskre Pijn, bundeñ, Caiphas Mææge sijn, Hañas, vorn HErrañ sæta, Hofud-Kieñemañs hædstu Stiett, hafde saa þetta Aared riett, Guds Logmaals aatte ad giæta. †

Ur Himna-Rijkis Hvijldar-Stad, hofdum vid Saal mijn forskulldad, wtrekeñ viist ad vera, Eñ JEsus took nu uppaa sig, O-naadan þessa fyrer þig, Lof sie þeim liwfa HErra.

Hiartad bæde og Hwsed mitt, Herberge vere JEsu þitt, hiaa mier þigg Hvijld hentuga, þott þu komer med Krosseñ þiñ, Kom þu Blessadur til mijn iñ, Fagna eg þier feigeñs Huga.

† Caiphas hafde hier um̃ spaad, hentugast munde þetta Raad, ad dæe Eirn fyrer Alla. † Embættes mælte Andeñ þar, af þvi Hiartad ei visse par, Sañleik Guds siñte valla.

Balaams Dæme eins var eitt, Andagypt slijk var honum veitt, spaklega Tungañ spaade, hañ hafde

hafde i Siñe Hreckia-Raad, Hiartad fieck ecke Sañleiks gaad, þvi hañ Fie-Gyrndeñ þiade.

O! JEsu laat þiñ Anda hier, alldrei vijkia i burt fraa mier, Leid mig Veg Lijfsins Orda, so Hiartad bæde og Maaled mitt, mykle Samhuga Nafned þitt, Hollds-Gyrnd og Hræsne forda.

† Til Caiphas voru komner señ, Kieñevallded og Stioornar-Meñ, Byskupeñ þegar ad Bragde, Leitar Andsvars til Lausnarans, uñ Læresveina og Kieñing hañs, eñ JEsus aptur sagde.

Opeñberlega eñ ecke lelnt, i Musterenu kieñda eg beint, hvad spyr þu mig uñ þetta? Kuñgiora meiga þar uñ þier, þeir sem Lærdoomeñ heyrdu af mier, þa laattu þig Leidrietta. †

Giæt ad mijn Saal og siaadu þar, Sonur Guds under Rañsak var, krafdur þad Kvollded Eina, A Kvollde hvoriu þu koma skallt, Kvollds-Reikning vid þig sialfur hallt, med Kvollds-Offurs Ydran hreina.

Pu Guds Kieñemañ þeink uñ þad, þar mun uñ sijder grenslast ad, hvorneñ og hvad hier kieñder, ad Læresveinum mun lijka spurt, sem liet þitt Gaaleyse villast burt, huxa glogt hvar vid lender.

JEsus vill ad þijn Kieñing klaar, kroptug sie, hrein og opeñskaar, lijk hvellum Lwdurs-Hlioome, Launsmiadran oll og Hræsneñ haal, hindrar Guds Dijrd, en viller Saal, straffast med straungum Doome.

Vandgiætslañ mijn er margvijslig, Milldaste JEsu

JEsu, bid eg þig, Væg þu Veikleika mijnum, Forsoonun eingen fanst hiaa þier, Fullnadar Boot þad tel eg mier. Styrk veittu Pioonum þijnum!

Eins er hier eirnen ollum riett, Alvarleg Kienning fyrersett, ad Ord Guds Elske og Lære, Trwen Jnnvortis efle Gied, Einardleg Jaatning lijka med, Avoxt hid ytra fære.

† Byskups-Pioon eirn i Bræde þo, Blessadan JEsum Pwstur sloo, svo þad Ritningen seiger, hoogværlegt Andsvar HErran gaf: † Honum Saal mijn þad lærdu af, Um Sakleyse þitt ei þeiger.

Hvart Samvitskan Adam sloo, illan Kinnroda fleck han þo, J fyrsta Falle sijnu, þess vegna JEsus Hogged hast, hlaut ad lijda og rodna fast, allra fyrst i hans Pijnu.

DRotten JEsu eg þacka þier, þetta leidstu til Frelsis mier, Eg bid Astseme þijna, Samvitsku-Slogen svida-skiæd, aa Saalu mine þu mijk og græd, burt taktu Blygdan mijna, Amen.



# XI. Psalmur.

## Um Afneytan Peturs.

Ton, Dagur i Austre ollu, etc.

†

MUnDspialls Historian gietur, gripen þa JEsus var, aller sen utan Petur, yfergaafu han þar, og Læresveirn eirn anar, aaleingd-

aleingdar geingu hliodt, Herrans Braut hrygdar ſaña, harla dim̃t var af Noott.

Caiphas Kieñemañe, kuñugur Læreſveirn, Iñgeingur ort med Sañe, Ute ſtood Petur eirn, Ambaatt upp lwka beider, Okiendañ Petrum þa, I Forſal til Lijdſins leider. † Lærdoom hier ſiña maa.

Kroſſ Ferle ad fylgia þijnum, ſijſer mig IEſu kiær, Vorkyntu Veikleik mijnum, þo verde eg aleingdar ſiær, þa Trw og Pol vill þrotna, Preynger ad Nauden̄ vond, Reis þu vid Reireñ brotna, og riett mier þijna Hond.

† Kol-Elld, þvi kalldt var næſta, Kveikt hafde Præla Lid, Petur med Sturlan ſtædſta, ſtood hia þeim Logañ vid, Ambaatt hañ ein Sprogſette, af ſier þad heyra liet, mun þeſſe Mañ (hun friette) med IEſu af Nazareth?

Hañ neitar hradt ad Bragde, hræddur vid Ordeñ biſt, þañ ſig ei þeckia ſagde: Pa gool nu Haneñ fyrſt, ætlar ſier wt ad rijma, oñur Perna hañ ſaa, talar i añañ Tijma, til þeirra er ſtoodu hia.

Af Nazareth nu er þeſſe, nijkomeñ IEſu med, hiñar Gied trw eg þad hveſſe, hvor Madur ſpyria ried, ertu eirn af hañs Sveinum? eñ Petur neita vañ, ſagde med Eyde einum: alldrei þeckta eg hañ.

Pridia Siñ þar til løgdu, Pioonar Caiphas bert, Maalfæred ſumer ſøgdu, ſeiger til hvor þu

ert,

ert, Frænde Malchus ried mæla, munde eg þig ecke sia (giet eg siist Grun mig tæla) J Gardenum JEsu hia?

Petur med bliwgu Bragde, bradlega sagde Ney, Soor sig og sart vid lagde, soddañ Mañ þeckte hañ ei, glogt þegar giørdest þetta, gool Haneñ añad siñ, † siist matte Sorgum lietta, Swt slaug i Briostied iñ.

Sal mijn þier Fare forda, freklega voga siist, an Leysis DRottens Orda, Ostyrkt er Hollded vijst, þykest þu stødugt standa, stilla þiñ Metnad þarft, hvor sier vogar i Vanda, Von er sa falle snart.

Adur i Alden-Garde, O-hræddur Petur var, Kallmeñsku Hugureñ harde, hañs sig Auglijste þar, Audvyrd Ambatt hañ hrellde, Osmiog þvi skielfast vañ, Fra Sañleik sijdañ fellde, Sama þig henda kañ.

Köl-Ellde kveiktum jafnast, kytlande Veralldar Prial, Prælar Syndaña safnast, samañ vid Losta-Bal, fuller med Fals og Villu, fordastu þeirra Glis, ætijd er med þeim Jllu, Einfolldum bwed Slis.

Ambatt med ygldu Bragde, er þesse Verolld leid, morgum Mein-Snoru lagde, miog ai Spott Yrdeñ greid, Pijed med Prælum sijnum, Piopna Guds lastad sær, styrk mig med Mætte þijnum, moot heñe DRotteñ kiær!

† Epter Afneitan eina, wt villde Petur gar,

hugde

hugde hañ Braut sier beina, bwna þeim Solle fra, þa kom eitt ødru verra, Umñkrijngdu Prælar hañ, Affoor siñ sæla Herra, sier og formæla vañ. †

Hægt er hvorium ad stofna, J Hættu og Vanda-Spil, Forvitnis Dælskañ dosna, Dregur þar margañ til, Ogiæfu Gilldrañ þraungva, Greip skioott hañ kuñe ad naa, Utkómu Von sieck aungva, ad þvi i Tijma gaa.

Opt maa af Maale þeckia, Mañeñ hvor hellst hañ er, sig mun fyrst sialfañ bleckia, sa med Last-Mælge fer, Goodur af Giede hreinu, Good-Ordur reinest vijst, fullur af Illu einu, Illyrdeñ sparar sijdst.

Hryggeleg Hrosun hendte, heilagañ DRottenś Pioon, Syndeñ miøg saart hañ spente, Saalar var bwed Tioon, hvad mun eg Maattarnaumur, meiga þa standast vid, Vangiæteñ, Vesæll og Aumur, Vielum og Hreckia-Snid?

J Veralldar Vondsku Solle, velkest eg JEsu hier, Falle þad opt mier olle, Ostodugt Hollded er, megnar ei moote standa, mijn Hreyste Naatturlig, laattu þitt Lioos og Anda, leida og styrkia mig, Amen.

## XII. Psalmur.

### Um Yðran Peturs.

Ton, Kom Ande Heilage, etc.

Petur

†

PEtur þar sat i Sal, hiaa Sveinum iñe, Tvent hafde Hana=Gal, heyrt ad þvi Siñe.

Bweñ var Prisvar þa, þvert hañ ad neita, sier JEsum sælañ fraa, Sorg maa þad heita.

DRotteñ vor viek sier vid, vijst um þad gietur, Liwfur med Lijknar=Sid, og leit a Petur.

Strax flaug i Huga hañs, (hvad þo sijdst var=de) Lausnarans Ord og Ans, J Alden=Garde.

Blygdadest braadt vid þad, Briostt fullt af Trega, Gieck wt wr greindum Stad, og griet beiskleya. †

Siaa þu med sañre Trw, Saal mijn Astkiæ=ra, Hvad framar hefur þu, hier af ad læra:

Haatt galar Haneñ hier, J hvors Mañs Giede, drijgdar þa Synder sier, sem Petur skiede.

Saarlega Samvitskañ, Sekañ aaklagar, Jñ=vortis aumañ Mañ, aangrar og nagar.

Fær hañ sig friaalsañ sijst, þo fiñest hrelldur, sem Fugl vid Snwning snijst, þeim Snarañ helldur.

Vijkia þo vilie hañ, fraa Vondsku Hætte, Or=ka þvi ecke kañ, af eigeñ Mætte.

Upp þo sier ætle braadt, aptur ad standa, fellur hañ þegar braatt, J þijngre Vanda.

Logmaal Guds hroopar haatt, Hana=Gal añ=ad, seiger og sijner braatt, hvad sie þier bañad.

Pad þvijngar, þrwgar med, þad slær og lem=ur, sorgande syndugt Gied, særer og kremur.

Pad verkar Sorg og Swt, þeim seka Mane, hiaalpar þo aungvum wt, wr Synda-Bañe,
Hollded þar þrivotskast vid, og þyker illa, eykst aa þañ Synda-Sid, Svik, Hræsne og Villa.
Eñ JEsu Alit skijrt, Anda Guds þijder, sa giører hægt og hijrt, Hiartad uñ sijder.
Lætur hañ Logmaal bist, lemia og hræda, epter þad ser hañ fyrst, ad frida og græda.
Ord JEsu edla sætt, er hañs Verksære, hellst sær þad Hugañ kiætt, þo hrelldur være.
Hañ giefur hreina Trw, hañ falleñ reiser, hañ Veikañ hresser nu, hañ Bundeñ leyser.
Ei er i siaalfs Valld sett, sem nockrer meina, Yfirboot, Ydrân riett, og Trweñ hreina.
Hende þig Hrøsun bræd, sem Helgañ Petur, under Guds aattu Raad, hvort ydrast gietur.
Heimska er vesta vijst, Vid þad ad dyliast, Pu muner þa hier lijst, Vid Prauter skiliast.
Ef JEsus ad þier snijr, med Astar Hoote, Lijtu þa Huga-hijr, honum a moote.
Græta skallt Glæpe saart, Eñ Gude trwa, Elska hañs Orded klaart, fra Illu snwa.
Onijt er Ydran tæp, ad þvi skallt hyggia, Ef þu i giørdum Glæp, gyrnest ad liggia.
Petur þa formerkt fieck, Fall-Hrøsun slijka, Ur Synda-Salnum gieck, So giør þu lijka.
O! JEsu ad mier snw, Asioonu þiñe, sia þu mig særdañ nu, a Saalu miñe.
Þegar eg hrasa hier, hvad miøg opt sañast,

bend þu i Myskun mier, so meige eg vid kañast.
Opt lijt eg upp til þijn, Augum graatande, Lijttu þvi liwst til mijn, so leysest Vande, Amen.

# XIII. Psalmur.

## Um̃ Caiphas Doom.

Ton, JEsus Guds Son Eingieteñ, etc.

†

HOfMringiar Presta feingu, Fals-Vitne morg tilsett, Fwslega fram̃ ad geingu, fuller med Svik og Prett, Samhlioo-da urdu eige, Uppdicktad margt þo seige, JEsus þa þagde sliett. †

Lær þu ef Ligum mæter, Lijfs-Reglu Saal mijn hier, Med Forse og Piooft ei þræter, Praalega so til ber, Hoogvær Pogn Heipter stiller, Heimsk-Ordur Sañleik spiller, Opt fyrer siaalfum sier.

Hirdt alldrei hvad sem gyllder, ad hætta a O-satt Maal, Hvort veria edur sækia villder, verd-ur þad morgum Taal, Muñur sa laungum lijgur, Fra Lucku og Blessan hnijgur, Hañ deyder sijna Saal.

Sañleiks Vitne þo seige, sekañ mig Gude hia, Ottast þarf eg nu eige, Afsokun hef eg þa, Liwg-Votta Lijge megna, leid JEsus miña vegna, Klogun mig keypte fra.

† Caiphas friette fyrstur, Falsklega HErrañ ad, sialfur hvert sie hañ Christur? Og so eñ framar kvad, vid sañañ Gud eg þig sære, ef Sonur hañs ertu hiñ kiære; Seigdu oß satt um̃ þad.

JEsüs jatar ad Stundu, Jafnframt þvi so nam tia, Son Mañsins sia þeir mundu, Sitia þadañ i fra, til Kraptarens hægre Handar, og hier epter komanda, skiærasta Skije a.

Kieñemañ reif sijn Klæde, Kvad slijkt Gudlastan er, Adspyr med Ogna Bræde, um̃ þad hvad halldeð þier? Allt Raaded under tekur, er hañ vijst dauda sekur, soddañ samþyckium vier. †

JEsus ei ansa hyrdte, ædur þa loged var, Guds Nafn þo giarnañ vyrdte, gaf þvi Caiphæ Svar. Lygd Heims þo lijted sæter, Lausnarans Dæmis giæter, Leita Guds Lofdijrdar.

Hygg ad og herm hid saña, hvønær sem til er reint, hrædst ei Hootaner Maña, halldt þiñe Jatning beint, giæt vel ad geimer þetta, Guds Ord og Trwna rietta, medkiendu liooft og leint.

Caiphæ Logsogn leida, Lært hafa marger eñ, hvad sem Hofdingiar beyda, hiner ælykta señ, Vinskap sig villa læta, Viliande Raungu jæta, fordest þad froomer Meñ.

Sw er mijn Huggun sama, sem þijn var JEsu miñ, Krosseñ þa ad vill ama, Ossookn og Hormung stiñ, Hia þiñe hægre Hende, hier þo ad Lijfed ende, Fagnadar Nægd eg fiñ.

Pier til Gudlostun lagde, liwgande Kieñemañ,

mañ, Dauda sekañ þig sagde. Sañlega Urskurd þañ, ætte eg ad heyra helldur, hardt med riettu Sakfelldur, viist eg noog til þess vañ.

Andlegt Valld einum Roome, wrskurdar Daudañ hier. DRottẽ i Nædar-Doome, dæmer þvi Lijfed mier. Packa eg Elsku þiñe, þu keypter Saalu miñe, Frijun og Frelse hier, Amen.

# XIV. Psalmur.

## Uñ Pioonaña Spott vid Christum.

Ton, Allfagurt Lioos oss byrtest brætt, etc.

†

EPter þañ Doom sem allra fyrst, Andleger dæmdu uñ HErrañ Christ, hafa þeir þviad þa var Noott, þegar til Hvijldar geinged skioott.

DRottẽ vor epter þreyttur þar, Prælum til Glætslu feingeñ var, giorde ad honum Gis og Dar, Gudlausra Maña Flockur þrar.

Hædung, Spott-Yrde, Hroop og Brijxl, Hvør liet med ødrum gæanga a Viixl, Hræktu og slou HErrañ þar, hañ þo a medañ bundeñ var. †.

Siaı þu og skoda Saala mijn, Saklausa Lambsins beisku Pijn, Hugsa vandlega uñ þad allt, af þessu hvad þu læra skallt.

Hañ sem ad Nætur-Hvijld og Roo, hvorre

Skiepnu af Myskun bioo, J siñe Ogna Eymda Stærd, Aungvañ Kost fieck a neirnre Værd.

Hvijldar-Nott marga hef eg þaad, HErra JEsu, af þiñe Naad, Kvol þijn Eymdum mig keypte fraa, Kañast eg nu vid Giædsku þa.

Nær sem eg reyne Sorg og Soott, seinast ad kiemur Daudañs Nott, Nætur-Kvala sem neyddu þig, niioota laattu þa JEsu mig!

Samvitsku-Slog og Satans-Haad, sefe JEsu, þijn blessud Naad, Ofbod Daudañs og Andlaats-Pijn, aftake og miike Giædskañ þijn!

Margur (og vijst þad maklegt er) miøg þessum Skaalkum formæler, þo fiñast nockrer hier i Heim, ad Hegdun allre lijker þeim.

Hvad giora þeir sem hier a Jord, hafa ad Spotte DRotteñs Ord, lifa i Glæpum liooft til sans, lasta og forsmaa Pioona hañs?

Saa sem Guds Naad og Sañleikañ, sier, þecker, veit og skynia kañ, Kukl og Fiolkinge kyñer sier, Caiphas Prælum verre er.

Soneñ Guds ecke þecktu þeir, þvi syndga hiner laangtum meir, sem kallast vilia Christner best, Christum þo lasta allra mest.

Hræsnarar þeir sem Hrecke og Synd, hylia þo under Froomleiks Mynd, Lijkiast þessum sem Lausnarañ, lomdu blindande og spiodu hañ.

Hvorium sem Spott og Hædne er kiær, hañ geingur þessum Selskap nær, Forsmaan Gudrækins Faatækts Mañs, Fyrerlitning er Skaparans.

O!

O! Vesæll Madur ad þvi gaa, epter mun koma Tijme saa, sama hvad nidur saader hier; sialfur aan Efa upp þu skier.

Ef hier aa Jordu er Hroop og Haad, Hædne og Gudlast nidursaad, uppskored verdur eilijft Spie, Agg og Forsmaan i Helvijte.

Ætla þu ecke aumur Mañ, afkomast mune Strafflaust hañ, sem Soneñ hefur hier hædt og spad, horfe Fadereñ uppaa þad.

Hvad JEsus nu um̃ Nætur-Skeid, Naudstaddur hier af Moñum leid, Ogudlegur um̃ Eilijfd þa, med illum Dioflum lijda maa.

Okiendum hier, þo aumur sie, alldrei til-legg þu Haad nie Spie, þu veitst ei hvorn þu hitter þar, helldur eñ þesser Gydingar.

Sialfañ slær mig nu Hiartad hardt, hef eg aan Efa mykeñ Part, af soddañ Illsku aastundad, audmiwklega eg medgeing þad.

Saad hef eg nidur Synda-Root, Svijvirding mijn er morg og lioot, Uppskieru-Tijmañ Ottast eg, aangrast þvi Saaleñ næsta miog

HErra miñ JEsu Hormung þijn, Huggun er bæde og Lækning miñ, Sakleyse vijst þu saader hier, Sæluñar Avoxt gafstu mier.

Blood-Dropar þijner, blessad Saad, Ber þañ Avoxt, sem heiter Naad, þañ sama Gud mier sialfur gaf, Saaluhiaalp mijn þar sprettur af.

Hæddur varstu til Heidurs mier, Hogg þijn og Slog mijn Lækning er, Alldrei mun Dioful

eiga Valld, a mig ad leggia Synda-Gialld.

Eñ þier til Heidurs aptur a moot, ydraſt vil eg og giøra Boot, Hollds Vilia giarnañ hepta miñ, hialpe mier JEſu Kraptur þiñ, Amen.

# XV. Pſalmur.

## Uñ Rædſtefnu Preſtaña yfer Chriſto:

Ton, Chriſtꝰ er koma fyrer Hondum, etc.

†

MEJog ærla uppe voru, Olldungar Juda ſeñ, ſo til Samfundar fooru, fyrſter þo Kleñe-Meñ, i Rædſlag lietu leidaſt, lijkar þad øllum vel, Hvorneñ þeir giæte greidaſt, Guds Syne komed i Hel.

Helmtu med Helptar-Lundu, HErrañ vorn til ſijn brædt, Ordſøk þvi øngva fundu, aller ſeñ mæltu hætt, Seig oſſ ef ertu Chriſtur, Eñaſte Son Guds ſæ, Grædareñ Giæſku liſtur, Gaf Andſvar þar uppæ.

Po ydur eg þad ſeige, ecke ſamt trwe þier, Andſvared mier og eige, ef eg ſpyr nockurs hier, Mañſins Son ſiæed ſitia, ſeñ hiæ Guds hægre Hlid, J Skije mun eirneñ vitia, aptur med Dijrdar Sid.

Ertu Guds Son? þeir ſøgdu, ſvarade Drottꝛeñ, Jæ, Diarſer þañ Doom ælogdu, Dauda-Madur er ſa, Uppſtoodu ſtrax ad Stundu, Strijd

þeim

þeinr i Hiarta brañ, Frelsarañ Fiøtrum bundu, Færdu Pilato hañ. †

Hier mattu Saal mijn saña, so geingur þad til vijst, Astundan Illvyrkiaña, Umhyggiu vantar sijst, ærla þeir Blunde bregda, Binda fast øll sijn Raad, Klooklega Hreckium hegda, hvor sem þess feinge gaad.

Eñ þu sem ætt ad vera, wtvaleñ DRottens Pioon, Verk hañs og Vilia giora, Og varast þitt Sælar Tioon, Andvara aungvañ hefur, Umhyggiu lijtell siest, vid Glis Heims Gælaus sefur, Gud næde soddañ Brest.

Marger upp ærla rijsa, ei gieta sofed vært, Epter Aud Heimsins hnijsa, Hollds Gagned er þeim kiært, Sæleñ i Briooste sofnud, sijnest ad mestu daud, Til allra Dygda dofnud, sem Drotteñ hellst þo baud.

Forsioonar Verk-Meñ vijser, Vijngarde DRottens i, Fyrst þa Dags Lioomiñ lijser, liwst bid eg giæte ad þvi, um sitt Embætte hygge, ærla giord Bæneñ sie, Idiulauser ei ligge, I Lijkamans Giæliise.

Haturs Meñ HErrans vaka, hugsande ad giora Tioon, epter þvi ættu ad taka, ef ertu hañs Trigda Pioon, vilier þu vid þeim sporna, og varast þeirra Hæd, ærla Dags alla Morgna, vid Ord Guds halltu Raad.

Peink nu i þijnu Hiarta, þar næst i añañ Stad, hvar um Herrañ ried kvarta, hyggia mættu

þar ad, Ordum hañs ecke treyſtu, Illgiarner Judar þeir, wr Spurning ongre leyſtu, æ þvi veſtnudu meir.

Hvor trwer nu hart þo hoote, Herrañ Synd ugum Lijd? All-fæſtér iña a moote, Yrunar Svoreñ blijd, Hyrtingar hialpa ecke, Heimur veſtnande ſer, Blyndleikeñ trwe eg oſs blecke, bwed Straff nalægt er.

Viiſt er eg veikur ad trwa, veitſtu þad JEſu beſt, fra Syndum ſeirn ad ſnwa, ſoddañ mig angrar meſt, þo framaſt þad eg megna, þijnum Ordum eg vil, Treyſta og giarnañ giegna, gief þu mier Naad þar til.

Þar næſt ad þeſſu giæter, þad er og Lærdooms Grein, ef þu Oriette mæter, Aſſokun duger ei nein, hafdu þa Vidlund hijra, HErrañ mun til þijn ſia, laat Polgieds Dæmed dijra, DRottens þig hugga þa.

Mier er ſem i Eyrum hlioome, Urſkurdur DRottens ſai, arla a effta Doome, upp þegar Dauder ſta, Aſſokun ei mun ſtoda, Andſvor nie Spurningar, ſa ſtendur viiſt i Voda, ſem verdur ſekur þar.

Hier er nu Koſtur ad heyra, HErrañ talande i Naad, Opne JEſus mitt Eyra, ſo ad þvi feinge gaad; hoogvær vors Bata bijdur, bleſſadur þeſſa Tijd, añars Heims er hañ ſtrijdur, ollum Forherdtum Lijd.

Arla Urſkurdeñ logdu, a þig Gydingar þo,

JEſu,

JEsu, og sekañ søgdu, selldu þig Pilato, Arla aa efsta Deige, Affokun gillder sw, til Dauda eg dæmest eige, DRotteñ þess miñest bu.

Arla Dags uppvaknadur, Ætijd eg miñest þijn, JEsu miñ Hiaalpar hradur, hyxa þu æ til mijn, Arla aa efsta Doome, Affokun vertu mier, miñstu þa Frelsareñ froome, hvad fyrer mig leidstu hier, Amen.



# XVI. Psalmur.

## Um̃ Judasar Ydran.

Ton, Konung David sem kiende, etc.



Judas i Gyrndar-Graade, af Gydingunum fyrst, Priaatijge Peninga þaade, þvi sveik hañ HErrañ Christ, liooft þegar lijta vañ, DRotteñ var nu til Dauda, dæmdur og þrongra Nauda, ydradest epter hañ.

Greidt i Mustered geingur, greiner so Ritning fraa, Um̃ Silfred siñte ei leingur, señ vill þad Prest um faa, sagde med saarum Mood, O! hvad eg giorde illa, þa yfer mig kom sw Villa, ad sveik eg saklaust Blood.

Lidsemd Prestarner løgdu, litla sem Von var ad, hardlynder honum søgdu: hvad eigum vier med þad? Þu maatt eirn siaa um̃ þig, Silfrenu aa Goolfed grijtte, gieck þadañ, miog sier flijtte,

og heingde sialfañ sig.

Radsteſnu Herrar hielldu, hættu þar seinast vid, fyrer Akur sialfer seldu, Silfred Leirkiera-Smid, adur sagt uṁ þad var, J Spadooms Sognum soñum, sa var Vegferdar-Moñum, giefeñ til Greftrunar. †

Sia hier hvad illañ Enda, Otrygd og Svikeñ fær, Judasar Lijkar lenda, Leiks-Brooður sijnum hia, Andskoteñ Jllsku slær, eñ hefur Snoru snwna, snogglega þeim til bwna, sem fara med Fals og Dar.

Otrw siñ eigeñ Herra, ætijd uṁ Halseñ sloo, eingeñ fieck af þvi verra, eñ sa Meinlausum bioo, Forræde, Fals og Viel, Judas þvi Hegning hendte, hañ Folkum til sijn bendte, eins og Achitophel.

Fiegyrndeñ Judam fellde, Fyrst var hañs Adtekt sw, Guds Son Gydingum selde, Gleymde þvi Æru og Trw, so til uṁ sijder gieck, kastade keyptum Aude, þa kvalde Sorg og Daude, Huggun alls aungva fieck.

Under-Root allra Lasta, Agyrndeñ kolluð er, Froomleika fra sier kasta, Fiarplogs-Meñ agiarner, Sem freklega elska Fied, Aude med Okre safna, Andlegre Blessan hafna, eñ setia Saal i Ved.

Añad hvort er i Vonum, Audureñ fagur nu, hafnar þier, ellegar honum, hriggur burt kastar þu, Pa Daudeñ þreinger ad, Agyrndeñ Otæpt svelger,

svelger, af þvi Sälena velger, J kolldum Kvala-Stad.

False og Fiegyrnd ræingre, Forda þier Säl mijn blijd, So mæter ei Ogn nie Angre, þa ad fer Daudans Tijd, Bird lijtels Veralldar Plog, hvor sem sier lynda lætur, þad lienar Drottens mætur, sa hefur alls Nægta noog.

Opt JEsus ædur hafde, Aminning Judæ giört, Hreckvijsen Hiartad vafde, hañ hielldt þad einkis verdt, nu kom þar eirneñ ad, Tilsögn hatade hreina, Huggun fieck þvi ei neina, Varastu Vijte þad.

Eñ hvad framleidde hañ illa, ædur Lijferne sitt, þesse þo var hañs Villa, verre eñ allt añad hitt, Ad hañ Orvænting med, Säl og Lijf sette i Vanda, Synd a moot heilögum Anda, helld eg hier hafe skied.

J DRottne ef villtu deya, DRottne þa lifdu hier, Til Jlls lät þig ei teygia, Ord Guds sie kiærast þier, Sæll er sa so vid bijst, eñ ef þig O-fall hender, aptur i Tijma vender, undañ drag Ydran sijst.

Brot þijn skallt bliwgur jäta, Eñ bid þo Gud um Nääd, af Hiarta hriggur græta, eñ heilnæm þiggia Rääd, umfram allt þeinktu þo, Son Guds bar þijnar Synder, og so þu Myskun finder, Saklaus fyrer Sekañ doo.

DRotten lät mig ei dyliast diarflega Synder vid, þo hier um Stund meige hyliast, HErra trwr

wr þessi eg bid, þa Heime fer eg fraa, Orvænting ei mier grande, Ord þitt og Saũleiks Ande, Hiartad mitt hugge þa, Amen.

# XVII. Psalmur.

## Um̃ Leyrpottarans Akur.

Ton, Fader aa Himna Hæd, etc.

†

SO sem fyr sagt er fraa, Silfur-Peninga þa, hvorier loks Judam hrelldu, Hofud-Prestarner selldu.

Og keyptu eirn til saũs, Akur Pottmakarans, Þar mæa fullt Frelse hafa, Framande Meñ ad grafa. †

Þar fiñst ein Þijding fijn, Þess giættu Saala mijn, af Guds aasettu Raade, Um̃ þad Zacharias spaade.

Lijkest Leyrkiera Smid, Lijknsamur DRotteñ vid, sem fyr Esajas sagde, og Siaalfur þad riett wtlagde.

Af Leyr med Lijssins Krapt, liet hañ Mañkyned skapt, hrein Kier til Heidurs setur, hin oñur lægra metur.

DRotteñ Eirn Akur a, Er honum falur saa, miñstu hañ Myskun heiter, mæddum Lijd Huggun veiter.

JEsus eirn er saa Mañ, sem Akureñ keypte þañ,

þañ, eñ hañs Blood-Dropar blijder, Borgun-ar Gialldeð þijder.

Framande Folkeð þad, sem fieck ei neirn Hvijl-dar-Stad, Erum vier Sorgum setner, af Synd-ugu Edle gietner.

Illskuñar Edleð vort, Utlenda hefur giort, oss, fraa eilijfre Glede, J Adams Falle þad skiede.

Saaleñ i Utlegð er, Æ medañ dvelst hun hier, J Holldsins Hreise naumu, halldeñ Faangelse aumu.

Daudeñ med dapre Swt, dregur um̃ sijder wt, Hana: Pa Hreiseð brotnar, Holldeð i Jor-du rotnar.

Eins og wtkastad Hræ (ef eg riett skiniad sæ) Hiaalparlaus Saal maa heita, Hvijldar kañ ei sier leita.

Hættu og Hormung þa, HErrañ miñ JEsus saa, Aund vora af Ast og Millde, Ur Utlegð kaupa villde.

Fadereñ salt þad liet, Fridarstad Saalum hiet, Ef Sonureñ Giallð þad greidde, sem Guðs Riettlæte beidde.

Opnade Siooðeñ siñ, Sonur Guðs JEsus miñ, Hwstrijktur kvaleñ krijndur, a Krosse til Dauda pijndur.

Blood-Dropar dundu þar, Dijrasta Giallð þad var, Keyptañ Akur þvi eigum, Ohrædder de-ya meigum.

Hier þegar verdur Holld, huleð i Jardar-Molld,

Molld, Sáleñ hrygdarlaust hvijler, heñe Guds Myskun skijler.

Eñ þu skallt ad þvi gáa, Akursins Greftran þa, Aungver utañ þeir feingu, i Jerusalem geingu.

Christneñ Guds hier um̃ Heim, heiter Jerusalem, i hana iñ komast hlijtur, hvør sem Myskunar nijtur.

J heñe hvør eirn sá er, á JEsum trwer hier, skijrdur og alla Vega, Ydran giører Daglega.

Okvijdeñ er eg nu, af þvi eg hef þa Trw, Myskun Guds Saalu mijna, mun taka i Voktun sijna.

Hvørneñ sem Hollded fer, hier þegar Lijfed þver, JEsu, i Umsioon þiñe, Ohætt er Saalu miñe.

Jeg lofa Lausnareñ þig, sem leister wr Utlegd mig, Hvijld næ eg Naadar spakre, Nu i Myskunar Akre.

Þu gafst mier Akureñ þiñ, þier gief eg aptur miñ, Ast þijna á eg rijka, Eyg þu mitt Hiartad lijka.

Eg gief og allañ þier, Æ medañ toore eg hier, Avorteñ Jdiu miñar, J Akre Christne þiñar.

Eins bid eg aumur Præll, ad uñer þu JEsu sæll, Lidnum Lijkama mijnum, Legstad i Akre þijnum.

Hveite Korn þecktu þitt, Þa uppriis Hollded mitt, J Bindene Barna þiña, Blessan láttu mig fiña, Amen.

* * * * * * * * *

# XVIII. Psalmur.

## Um̃ Akløgun Gydinga fyrer Pilato.

Ton, Sæler eru þeim sialfur Gud, etc.

†

NRla sem gløgt eg greina van̄ med Guds Son bundeñ fara, Prestarner, so ad pijndest hañ, til Pilatum Landsdoomara, i Pijng-Hws iñ, þad sama Siñ, sagt er þo eingeñ kiæme, so ecke meir, saurgudust þeir, † siai hier Hræsneñar Dæme.

Iñgang um̃ Hws-Dyr Heidingians, hiellðu þeir Synd bañada, eñ saurgast a Bloodé saklauss Mañs, siindest þeim øngvañ Skada, Heims Børnum hier, Ovirding er, Aumstoddum Hiálp ad veita, Guds Ords Forackt, Agyrnd og Pract, eingeñ Misgiord skal heita.

† Pilatus sem þad formerkt fieck, fyrst ei þeim Metnad sætte, aan Ovalar sialfur wt þvi gieck, Embættis Skylldu giætte, Sakargyft þa, vill fulla fa, Framborna af þeirra Muñe, Daarordeñ flioot, Drambseme moot, Doomareñ siña kuñe. †

Laat þier ei vera Asmaan ad, ef þu villt froomur heita, af Pilato liooft ad læra þad, sem Loflegt er epter ad breyta, Raanglæted hañs, þess heidna Mañs, halldt þier Mijnkun Tvofallda, þeim mid-

ar ſer eñ honum hier, hvor vill þañ Chriſteñ
hallda?

Alited ſtoort og Hefdar hatt, hrædaſt ſkyllder
þu ecke, Sañleikans giæta ætijd ætt, eingeñ Ki-
aſſmaal þig blecke, Ærugyrnd lioot hofmoodug
Hoot, hæfer ſiſt Yfer-Moñum, Dramblæatum
þar, þu gief Andſvar, þo bygt æ Rokum ſoñum.

† Olldungar Juda allra fyrſt, uppbæru Sok
þrefallda: Foolkenu þeſſe fræ ſnijr viiſt. Fyrer-
bijdur ad giallda, Keyſarans Skatt, þad ſeiginn
vier ſatt. Siæalfur vill Kongur heita, og Chriſtur
ſæ, ſem koma æ, Kvittun og Frid ad veita. †

Hier koma fram þau riettu Rok, Rædu og
Pæanka miña, þier JEſu giefeñ var Prefolld
Sok, þad kañ eg gløgt ad ſiña, Prefalldleg Se-
kt, mig þiæde frekt, þar um eg klagaſt mætte,
Prefallda Stygd, og þwnga Lygd, þu leidſt med
ſøgdum Hætte.

Fræſnwed Gude allt mitt er, Edled og Liif
fæneita, ødrum þvi gief eg opt af mier, ill Dæme
ſo ad breyta, eñ hier æ moot, med Elſku-Hoot,
øll Guds Born riett þvi trwa, fræ Bolvan,
Deyd, Dioſle og Neyd, D Rotteñ ried Lijdnum
ſnwa.

Gude ætte eg ad greida frij, Gialld Hlijdne og
Packar-Skylldur, Ræanglega hef eg hallded þvi,
høndlad ſem Præll Ogylldur, Audſveipneñ þijn,
yfer øllum ſkijn, Aſtſemdar HErrañ kiære, þu
baudſt, Giefed, (Gafſt ſiæalfur med) hvad Guds
og

og Keysarans være.

Sañlega hef eg hrokad mier, hærra eñ vera skyllde, Bod og Skipun mijns HErra hier, hallded i miñsta Gyllde, Kongdoom i Heim, og Heidre þeim, hafnader þu og fliyder, Hæatigneñ þijn, æ Himnum skijn, hun mun byrtast uñ sijder.

Rægdur varstu fyrer ranga Søk, Riettlæte JEsu millde, uppa þad øll mijn Jllsku-Røk, afplaanud verda skyllde, Aklogun su, sem þolder þu, þess bid eg HErrañ froome, sie mitt Forsvar, þa siñst eg þar, fyrer þeim straanga Dome, Amen.



## XIX. Psalmur.

### Jaatning Christi fyrer Pilato.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu, etc.

Ydingar høfdu af Hatre fyrst, hardlega klagad JEsum Christ, sem ædur sagt er fraa, Landsdoomareñ giørde ad gaa, gløgt hvad þijdde Frañburdur saa.

Aklogun fyrsta Andleg var, uñ þad Pilatus siñte ei par, Oñur uñ Skylldu-Skatt, hañ vísse vel þeir søgdu ei satt, soddañ Maalum þeyande hratt.

Eñ sem þeir nefndu Kongeñ Christ, kom hønum þa til Hugar fyrst, hvad ædur heyrde og nam, af Judum mællt uñ Messiam, ef mætte skie þad kiæme nu frañ.

Pilati Siñe i sumum fiñst, sem um Guds Dyrdkuñ hupa miñst, Hofdingium hræsna tijdt, Undersaata Frelsed frijdt, Fiarploogs-giarner ræfia nu lijtt.

† Hyrdstiooreñ spurde HErrañ þa, hvort hañ sie Juda Kongur saa? Eñ JEsus aptur tier, Talar þu so af siaalfum þier, Eda sogdu adrer þvilijkt af mier?

Þa vard Pilaati Þeled kallt, þig hatar, sagde hañ, Foolked allt, hvad Illt hefur þu giort? Aptur JEsus anſar bert, Er þad næsta Þeinkingar verdt.

Mitt Rijke er ecke hiedañ af Heim, hardt munde añars moote þeim, strijda miñ Magtar-Her, sem nu mig selldu i Nauder þier, so nædu ecke Gydingar mier.

Pilatus aptur anſa vañ, Ertu þo Kongur sagde hañ? Jaatade JEsus þvi, Hijngad barst eg Heimeñ i, Ad herma skyllde eg Sañleikañ frij.

Hver af Sañleiknum siaalfur er, sa mijna Roddu heyrer hier, Hædnis Svor hiñ til sañ: Hvad er Sañleikur sagde hañ? So gieck burt med Urskurdeñ þañ. †

Hier maattu Saal mijn heyra fyrst, HErrañ JEsus er Kongur vijst, þo ecke ad Heimsins Hactt, soddañ vel þu athuga att, þad eikur Glede Hiartanu þraatt.

Kongs-Tign þijn JEsu eilijf er, aller þiggia sijn Vølld af þier, Hofdingiar hier uñ Heim, þu lienar,

lienar, giefur, laanar þeim, Londen, Rijke, Met-Ord og Seim.

Fyrer þiñ Krapt og Frelsis-Hond, Forsvara Kongar Rijke og Lond, sem er þeim underlagt, eñ moote Diosle og Daudans Magt, duger eingeñ Hofdingia-Pragt.

Þu hefur sigrad Synd og Deyd, siælfañ Dioful og Vijtis-Neyd, haader eitt herlegt Strijd, allañ so þiñ leyster Lijd, Lof sie þier um eilijfa Tijd.

Andlegt þitt Rijke og eilijft er, Ord Sañleiks þvi riett stioornar hier, þiñ Velldis-Vondur sa, Ovine slær mier alla fraa, J þeim Krapte sigra eg þaa.

Eñ fyrst þitt Rijke Andlegt var, uñ þad Heimureñ siñte ei par, hañ sañ ei Hofmood siñ, hiaa þier JEsu HErra miñ, hatade allañ Goodvilia þiñ.

Undrast þvi Saal mijn ecke þarft, þo Adkast Veralldar lijder margt, þar uñ þier þeinkia ber, Ertu nu i Utlegd hier, Añars Heims þitt Fodur-Land er.

Sañleika Kongsins Sañleiks Raust, saa þarf ad elska Hræsnislaust, sem er hañs Under-Mañ, þvi Slægd og Lijge hatar hañ, Hrein-Hiortudum Myskunar añ.

Ef þu mijn Saal i Gude glodd, gyrnest ad heyra Kongsins Rodd, giættu þa giorla hier, hvad boda ORotteñs Pioonar þier, þeirra Kieñing Raustañ hañs er.

Rañsaka Saal mijn Ord þad ert, ad verdur spurt hvad hefur þu giort, þa Herrañ helldur Doom, hiaalpar aungvum Hræsneñ toom, hrein sie Trw i Verkunum froom.

Eñ sokum þess þu ei Saklaus ert, siaalfur spyr þig hvad hafer þu giort, um̃ hvorn um̃lideñ Dag, Yðrun gior og græt þiñ Hag, Guds Son bid þad færa i Lag.

Allt hef eg JEsu illa giort, allt þad ad bæta þu komeñ ert, um̃ allt þvi eg kvittur er, allt mitt Lijf skal þioona hier, þar til bid eg hiaalpa þu mier, Amen.

# XX. Psalmur.

## Um̃ Aklögun Gydinga fyrer Pilato.

Toņ, Ovinañleg Borg er vor Gud, etc.

Pilatus hafde proofad nu, Pijslar-Sök JEsu giefna, Klien virdtest honum Kongs-Tign sw, þa Christur Sañleik ried nefna, Heims Sañleik heidra liest, hædde Guds Sañleik mest, Sañindeñ elska ber, Ord DRottens lættu þier, kiærast þo allra Efna.

† Jafn-Odt þa gaanga Jarleñ ried, til Juda wt ad Bragde, aungva Sök þessum Mañe med, mæ eg fiña hañ sagde, Gydingar helldur hardt, HErrañ klögudu um̃ margt, med Ede, Dyn og Dramb, eins riett sem Meinlaust Lamb, Lausn-

Lausnarenn liwfur þagde.

Hann hefur uppæst Lijdenn Lands, leinge miog vijda kiende, fra Galilea og so til Sanns, umm sijder allt hijngad vende, Pilatus hugde hier, Hrinda þeim Vanda af sier, Herodes hafde þvi, Hird stioorn þeim Parte i, Til hanns þvi HErrann sende. †

Fyrer mig JEsu þolder þu, Pijning og beiska Pijnu, Hiartad gledst þvi eg heyre nu, hrposad Sakleyse þijnu, Syndenn lä sart a mier, Sok fannst eingenn hiä þier, So er Sakleyse þitt, sannlega orded mitt, vid Mälefne tookstu mijnu.

Logmäl DRottens þa Hefndum hardt, Hootar mier epter Vonum, aptur minn JEsus ansar snart, eingenn Sok finnst med honum, Sakleyse mitt til Sanns, seige eg nu orded hanns, eingenn Aklogun flioot, Orka skal neitt a moot, mijnum Pol-lyndis Pioonum.

Onytiu Hial og Mælgenn mijn, mier til Falls koma ætte, enn JEsu blessud Pognenn þijn, þad allt fyrer mig bætte, Skyllda mijn aptur er, epter ad breyta hier, þeigiande i þijdre Trw, þola nær lijd eg nu, Þorf være þess eg giætte.

Pilatus meinte Mannvits Slægd, munde Obrygdul standa, koma vill þvi med Kiænsku Nægd, Kong Herode i Vanda. Kunna þa Atferd enn, allmarger Veralldar Menn. Bid Gud og giær þijn vel, giarn er Heimur a Viel, Gaalausum Svikenn granda.

Kroſs-gaunganñ JEſu þeſſe þyn, þar fyrer Eſ-lauſt ſkiede, ſo hvijlaſt mætte Saaleñ mijn, ſætt i eilijfre Glede, Embættis Omak laungt, opt þo mier fiñeſt ſtraungt, til Lofs og Pocknunar þier, þad vil eg giarnañ hier, lijda med liwſu Glede, Amen.

# XXI. Pſalmur.

## Uñ Herodis Forvitne og hvijta Klæded.

Ton, JEſu Chriſte þig kalla eg a, etc.

†

Egar Herodes HErrañ ſaa, hañ vard-niog gladur næſta, af honum heyrt haf-de, og heillſt vill ſaa, hañs Aſijnd lijta glæſta. Forviteñ mørgu friette ad, Fijſn Holldſins Kapp aa lagde, med biſtu Bragde, JEſus took ecke under þad, vid øllum Spurningum þagde. †

Marger fiñaſt eñ hier uñ Heim, Herodis Lijk-ar rietter, Guds Ord er Skemt og Gaman þeim, ſem Glens edur nijar Frietter, Forvitneñ Holld-ſins hnyſer þraatt, J HErrans Leyndardooma, med Fijſn ei frooma, aumre Skynſeme ætla of-haatt, alldrei til Skilnings koma.

Mañvits Diwp-fiudne og Menta-Glis, marg er þa vilia reina, Ad Orde DRottens þeir giøra Gis, Gaman Loflegt þad meina, Varaſtu Saal mijn Lijteñ reynd, vird þu i hædſta Gillde, þa miklu

miklu Millde, Alvarlega med goodre Greind, Gud vid þig tala villde.

Gud giører ecke ad Gamne sier, Glæpamoñum ad hoota, Kallsmælge honum og eingeñ er, ad þu meiger Myskun hlioota, Audmiuklega med allre Gæt, ættu um̃ slijkt ad ræda, og fleire fræda, eñ af þier heyrast alldrei læt, Ord DRottens skuler þu hæda.

Heyre eg um̃ þig miñ Herra rædt, i Hiælpsrædis Orde þijnu, Allt sijnest mier þa bæd og bætt, Boled i Hiarta mijnu, i Sacramentenu sie eg þig, so sem i Lijking skiærre, med Naad mier nærre, O! hvad gledur sw Asijnd mig, eingeñ fiiñst Huggun stærre.

Herodis Fijsn var Holldleg sw, hañ ried Forvitne giña, eñ mijn Sæla af Ast og Trw, Andvarpar þig ad fiña, Lossamleg er sw Luckustund, þa lijt eg þig Herrañ þijde, i þiñe Prijde, gief mier loksins þañ Fagnadar-Fund, þo fyrst ad Siñe hier bijde.

Pad kieñer HErrans Pogneñ froom, þar næst i añañ Marta, hañ vill ei sijnum Helgedoom, fyrer Hunda kasta læta, DRotteñ forsmaaer Drambsamt Gied, diarflega margs þo freiste, og frekt sier treyste, Hug-stolltum nidur hrinda ried, Hoogværa Sæl vidreiste.

† Herodes og hañs Hof-Foolk lijtt, um̃ Herrañ ackta villde, Færde hañ i eitt Fated hvijtt, Forsmaan þad heita skyllde, Til Pilatum sijdañ send-

ur var, so komst i Fridar-Stille, Osstopeñ ille, Drambsom Ofundeñ madur bar, Ovinskap þeirra i mille. †

Hvitt Klæded giorde Haadung hier, Herra miñ JEsu sæte; Dijrdar-Skrwda so skeinkter mier, Skijnande Guds Riettlæte, Sakleisis Merke þetta þitt, þijns Fodurs Giæskañ hreina, þa þeckte alleina, hañ sier og proofar Hiartad mitt, Hvad sem Illgiarner meina.

Heilagra Saalna Hoopur skiær, A Himnum med Skyckun frijda, Til Heidurs þier JEsu Herra kiær, Hvijtum Klædum sig skrijda, Eins hier a Jordu upp fra þvi, Eflaust i Miñing slijka, med Rogsemd rijka, byrtust Snioo-hvijtum Bwning i, Blessader Einglar lijka.

Veittu JEsu þa Mynskun mier, Meinleysis skrijddur Klæde, Pioone eg Taal-laust med Trygd um þier, J Trw, Von og Poleñmæde, Riettlætis Skrwda Skarted þitt, skijne a Saalu miñe, þo Lijf hier liñe, Eins laattu Hollded eirneñ mitt, Afklædast Prisvotsku siñe.

Forlijkast giordu Fiandmeñ tveir, þa foorstu þar JEsu mille, Eg veit mier gafstu mykly meyr, Mynskun og Fridar-Stille, Hia Gude Fodur so til sañs, siest eingeñ Reide leingur, nie Stigdar-Streingur, Daglega mille mijn og hañs, miñ trw r Frelsaregeingur

Hvar sem Ofridur hreiser sier, Af Holldsins Veikleika braadum, mille Christeña Maña hier,

mooté

moote Guds Vilia og Raadum, Gacktu þar JEsu mille mest, med þijnum Fridar Anda, og varna Vanda, Hiaalpa þu so vier hugsum best, J hreinum Kiærleik ad standa, Amen.

# XXII. Psalmur.

## Um̃ Krossfestingar Hroop yfer Christo.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

†

HRaa Herode þa Christur kom, kallar Pilatus sniollum Room, Gydinga Lijd og lioos gaf Rok, Lausnaren̄ hefde aungva Sok, Samþickur være og sier til þess, siaalfur Kongureñ Herodes. †

Sañlega DRotteñ Sakleysed, Sier, Elskar, bæde og styrker med, Hiarta og Muñur hvors eins Mañs, hlijtur ad þioona Vilia hañs, Maalefned gott fær goodañ Room, giæt þess mijn Saal, og vert þu froom.

† Sidur Gydinga sa var þa, Saka-Mañ eirn þeir skylldu faa, um̃ Paaska-Tijmañ fraa Pijslum frij, Pilatus atte ad giegna þvi, J Frelsis Miñing wr Egypto: † Alldrei baud Drotteñ soddañ þo.

Siaa til mijn Saal ad Sidvaneñ, sijst meige villa Huga þiñ, fordast honum ad fylgia hier, framar

mar eñ Guds Ord leyfer hier, Good Meining aungva giører Stod, Gyllda skal meira DRottens Bod.

† Pilatus Judum sagde so, siaæd nu gløgt uñ Koste Tvo, Eg blijd hier JEsum ydur fram, Eda Mordinglañ Barrabam. † Hañ meinte ad yrde hellst med þvi, HErrañ fra Dauda giefeñ frij.

Pu fær nu gløgt af þessu sied, þar sem DRotteñ er ecke med, J Verke, Aforme og Vilia Mañs, Verda til Einskis Raadeñ hañs, Siervitska Holldsins svikul er, so sem Pilatum skiede hier.

† Yfermeñerner allra fyrst, Oskudu ad Drotteñ Krossfestist, Almwgañ so i Añañ Stad, Eggiudu mest ad bidia uñ þad, Barrabas Utlausn skyllde skie, skileñ JEsus fra Lijfe sie. †

Veralldar Dæmeñ varast skallt, vogadu ecke ad giøra þad allt, sem Hofdingiarner nu hafast ad, þo Heimureñ kalle Løflegt þad, ef Blindur leider Blindañ hier, Badum þeim hætt vid Falle er.

Hvør þig eggiar a Jllverk bræd, alldrei gacktu med þeim i Rad, viñ þu þad ei fyrer Metord Mañs, ad missa Guds Nad og Vinskap hañs, hvørugur añars bæter Bol, þo bader rate i Straff og Kvøl.

Yfer-møñunum er þvi vant Undersaatarner hnissa grañt, epter þvi sem fyrer Augun ber, audnæmast þo hid Vonda er, hvad Hofdingiarner hafast

hafast ad, hiner ætla sier leyfest þad.

Jll Epterdæme a alla Grein, eru samlijkt vid Mylnu-Stein, vilier þu vera af Faare friâls, festu hañ alldrei hier vid Hals, J Guds Otta fra þier glæpum hrind, good vertu ødrum Fyrer-mynd.

Hws-Frw Pilati holl gaf Raad, hefde hañ betur ad þvi gaad: Goodar Kvĭñur þess giæte mest, giarnañ æstunde Dæmeñ best, Abigael fær Æru og Sæmd, illa Jezabel verdur ræmd.

Set eg þad nu i Siñe mier, sæte Jesu ad giæta ad þier, aller hroopudu allt uñ kriing, yfer þig Dauda og Krossfesting, sem Lamb meinlausast þagder þu, þar af stendur mier Huggun trw.

Løgmaalsins Bølvan bitur og sterk, Banvæ-rn Diøfull og øll mijn Verk, þo hroopa vilie nu hvørt fyrer sig, Hefnd og Fordæming yfer mig, Nijt eg miñ JEsu þijn i þvi, Fraa þeirra Klogun verd eg frij.

Afelles-Domsins Ogna Hroop, Ytstu Myrk-raña Vein og Oop, Alldrei mun koma ad Eyrum mijn, Eyruñ blessud fyrst heyrdu þijn, Kall og Haareyste kriingum sig, fraa Kvøl og Angist þad frelsar mig.

Hroopar nu yfer mier Himen og Jord, Helg-un, Frid, Raad og Saattargiørd, hvørt helldur eg geing Ut eda Jñ, J þijnu Nafne JEsu miñ, Bænar-Hroop mitt i hreirnre Trw, himneskum Gude þocknast nu.

Eñ hier til Heidurs allañ Tijd, Einglar Drottens og Christneñ frijd, hroopar nu bæde a Himne og Jord, Hosaña, Lof og Packargiord, Amen seiger og uppa þad, Aund mijn gladvær i hvorium Stad, Amen.

# XXIII. Psalmur.

## Uñ Christi Hwdstrijking.

Ton, Ofs lat þiñ Anda styrkia, etc.

†

Pilatus HErrañ hædsta, hwdstrijkia læt ur þar, Nakeñ vid Stoolpañ stædsta, streingdur þa JEsus var, Strijds-Meñ med Svipum hrocktu hañ. † Sæl mijn hier sia og skoda, hvad Sonur Guds fyrer þig vañ.

† Helgasta Hollded frijda, fra Hvirfle Ilium ad, DRottne vard sart ad svijda, svall allt af Benium þad, hvør hañs Lijkama Limur og Æd, af Sarum sundurflakte, sw Hyrting miøg var skiæd.

Blessadur Dreyreñ dunde, DRottens Lijfs-Ædum wr, sem Regn þad hradast hrunde, Himens i dimu-Skwr, blaanade Hollд eñ boolgnade Und, Sonur Guds sart var kvaleñ, saklaus a þeirre Stund. †

Jeg var sem Fiotrum færdur, Fangelse þwngu i, A Aund og Samvitsku særdur, Syndeñ mijn olle

olle þvi, sw daudleg Saalar Sootteñ hier, uñ hvoria Ed wt sier dreifde, Eckert sañst heillt ar mier.

Svipañ Logmaalsins lamde, Lijf og Saal hellður frekt, Otteñ Kvalaña kramde, komeñ var eg i Sekt, bañvænlegt orded mitt var Mein, Hiartad af Hrigdum stunde, hvorge fieckst Lækning nein.

Saastu þa JEsu sæle, Saar mijn Obærelig, til Lausnar þijnum Præle, þvi lietstu binda þig, gieckst so under þa Grimdar Kvol, ad eg kvittadur yrde, vid eilijft Hrygdar-Bøl.

Siwkdoom miñ siaalfur barstu, so vard eg heill med þvi, Hørmungum hladeñ varstu, fraa Hrigdum er eg nu frij, Hegning þu fieckst so hefde eg Frid, Beniar þijnar mier bættu, Boot sw þar ætte vid.

Hiartad vill Hrædslañ kreinkia, med hordum Sorgar-Stijng, þegar eg giøre ad þeinkia uñ þijna Hwdstrijking, Avij eg gaf þar Efne til, þu eirn gallst Priooskuminar, þess nu eg ydrast vil.

Pvi fell eg nu til Foota, Frelsareñ Jesu þier, lættu mig Nafns þijns niota, Naad og Vægd sijndu mier, Eg skal med Hlijdne heidra þig, nu og uñ Eilijfd alla, Pa huggar þu HErra mig.

Gledstu mijn Saal, þig grædde, Guds Sonar heilagt Blood, þo Synd og Sorgeñ mædde, siaa hier er Lækning good, Naad fyrer Reide nu er vijs, Brot Prælsins Herrañ bætte, bar þvi sijns Fødurs Hrijs.

Skoda

Skoda þu Skylldu þijna, skijrlega Saal mijn nu, Sonureñ sig liet pijna, so læknud yrder þu, Heilbrigd þioona þu honum riett, med Trw, Hollustu og Hlijdne, haf gaat a þiñe Stiett.

Pockneſt honum ad þiaka, þitt Holld Orkumſlum med, þijdlega þvi skallt taka, þoleñmoodt Hiarta-Gied, A sier DRotteñ og elſkar beſt, Lauſnara ad lijkiaſt þijnum, Lof er þier allra meſt.

Eckert maa ſooma ſijdur, ſijkaatur Prælleñ er, þa Herrañ Harmkvæle lijdur, haf ſlijkt i Miñe þier, Hrygdar-Mynd hañs er Heidur þiñ, laat mig þad læra og hallda, liwfaste Jesu miñ, Amen.

# XXIV. Psalmur.

## Um̃ Purpurañ og Pyrne Koronuna.

Ton, Til þiju heilage HErra Gud, etc.

†

Sllvyrkiar JEſum epter þad, iñ i Pijnghwſed leiddu, afklæddu fyrſt, og ſlioott þaangad, Foolked allt koma beiddu, Purpura-klædis forna ſlijk, (faaſt maatte varla Haadung ſlijk), yfer hañs Beniar breiddu. †

Helgunar Klæded hafde eg miſt, hlaut þvi Nakeñ ad ſtanda, Adam olle þvi allra fyrſt, Arf liet mier þañ til Handa, Syndaña Slijk eg færdeſt i, Forſmaan og Mynkun hlauſt af þvi, med hvorſkins Haaſka og Vanda.

Burt-

Burt-took JEsus þa Blygdun hier, Berañ þvi liet sig piina, Riettlætis Klædnad keypte mier, Kañ sa fagurt ad skiina, Athvarf mitt jafnañ er til sañs, under Purpura Kaapu hañs: þar hyl eg Misgiord miina.

† Þyrne Coronu þwngre Þeir, þreingdu ad HErrans Eñe, Baal-Ellde heitum brendu meir, Broddar sviidande i heñe, Augun hañs bæde og Andlit med, allt af Bloodenu fyllast ried, sliikt trwe eg Kvala kieñe. †

Fyrer Ohliidne Adams var, oll Jordeñ liist i Bañe, Avoxt þvi sliikañ af sier bar, Ord Guds trwe eg þad sañe, þessum Bølvunar Þyrne-Krans, þreingt var ad Hofde Lausnarans, til Huggunar hrelldum Mañe.

Eñ JEsu Hliidne aptur hier, allre Jord Blessun fœrer, heilnæmañ Avoxt hun þvi ber, hvoria Skiepnu vel nærer. Fyrer Giæskuñar Giorning þañ, Gofge, lofe og priise hañ, hvad sig uñ Heimeñ hrærer.

Bolvan mier yfer Hofde hieck, hootud i Logmaals Bræde, eñ JEsus hana under gieck, so aptur eg Blessan næde. Gud miñ Coronu gaf mier þar, Giædsku og Diirdar Eiliifrar, hier og a Himnum bæde.

† Reyr-Staf honum i Hønd med Spie, Hyrdstiooraus Prælar feingu, Heilsudu Konge og krupu a Knie, Kalls Ord a vygsl þa geingu, Reirnum hrocktu uñ Hofud hañs, hræktu i Audlit

lit Lausnarans, med Kvala Kappe straungu. †

Pa þu geingur i Guds Hws iñ, giæt þess vel Sal mijn frooma, hæd þu þar ecke HErrañ þiñ, med Hegdun Lijkamans tooma, beygdu Holldsins og Hiartans Knie, heit Bæn þijn Astar-Kvedia sie, Hræsneñ mun sijst þier sooma.

Sialfs mijns Verdskulldan sie eg hier, sodðañ atte eg ad lijda, uñ Eilijfd þa sem alldrei þver, med Ogn og sarum Kvijda, hefde mier ecke Hörmung þijn, hiálpad JEsu fra þeirre Pijn. Blessad sie Nafn þitt blijda.

Aull þijn Læging er Upphefd mijn, Astkiære JEsu millde, Heidur er mier ad Háduung þijn, hvor sem mier nidra villde, Hoggeñ sem leidstu hressa mig, a Himnum verd eg nu fyrer þig, meteñ i mesta Gillde.

Medañ Lijfs-Ræd er i mier heit, Eg skal þig DRotteñ prijsa, af Hiartañs-Gruñe i hvorium Reit, Heidur þijns Nafns auglijsa, Feigeñ vil eg i Heime hier, hlijda og fylgia i ollu þier, Laat mier þijna Lidsemd vijsa, Amen.

# XXV. Psalmur.

## Uñ Utleidslu Christi wr Pijng-Hwsenu.

Ton, Kynung David sem kieñde, etc.

Lands-

†

Ands-Doomareñ þa leidde, Lausnaraañ wt med sier, Gydingum Andsvor greidde, glögglega og so tier: Pier siæed þeñañ hier, Sañlega ydur eg seige, Sok finst med honum eige, sw Dauda-Dooms verd er.

Pa gieck JEsus wt þañeñ, Þyrne og Purpura bar, Sagde: Siæed hier Mañeñ, siælfur Doomareñ þar, Gydingar gæfu Svar, Burt med hañ, so þeirseigia, sæ skal æ Krosse deyia. Ofk þeirra Ein sw var.

Ord og Assokun gilldte, eingeñ i þessum Stad, Heipteñ so Hugañ fyllte, Hiartad vard forblindad, sijdast þeir sogdu þad, Liooslega Lijfs-Straffs krefde, Lögmæled, þvi hañ hefde, giordt sig Guds Syne ad. †

Riett Lög sem ritud fiñast, Ræangfærdu Judar hier, Ofs ber þar æ ad miñast, Jll Dæme fordunst vier, Doomureñ DRotteñs er, hiñ þo med Heiptum klage, og hreinañ Sañleik aflage, Siæe Valldsmeñ ad sier.

Pa eg heyre miñ HErra, hvorsu þu kvaleñ vart, giorvøll vill Gledeñ þverra, galldstu mijn næsta hardt, þvi eg braut myked og margt, Eñ þa mier Gudspioll greina, glögt þitt Sakleysed hreina, Hiartad fær Huggun snart.

Athuga Sæl mijn ættum, Utgaungu DRottens hier, so vid riett miñast mættum, hvad Myskun hañs veitte þier, hyggium ad hañ wt ber, Þyr-

ne Coronu þietta, þar med Purpuran lietta, Blaar og Bloodugur er.

Med Bloodskulld og Bølvan straanga, Beiskum reird Kvala Hnwt, aattum vid greidt ad gaanga, Fra Guds Naad reken wt, hraken i Heliar Sẃt, Iklædd Forsmaanar Flijkum, fra skwfud Drottne rijkum, Naken og Nidurlwt.

O! Synd, O! Synden arga, hvad Illt kiemur af þier? O! hvørsu Meinsemd marga, maa DRotten lijda hier? Þitt Gialld allt þetta er, blindad Holld þig ei þeckte, þegar þijn Flærd mig bleckte: JEsus Myskune mier!

En med þvi wt var leiddur, Alsærdur Lausnaren, giordest mier Vegur greiddur, i Guds Naadar Rijke in, og eilijst Lijf anad Sin, Bloodskulld og Bølvan mijna, Burt-took Guds Sonar Pijna, Dijrd sie þier DRotten min.

Ut geing eg ætijd sijdan, i Trauste Frelsarans, under Blæ Himens blijdan, blessadur vijst til Sans, nu fyrer Nafned hans, wt bored Lijk mitt lided, Legst og hvijlest i Fride, Saal fer til Sælu Rans.

Dijrdar Coronu dijra, DRotten giefur mier þa, Riettlætis Skrwdan skijra, skal eg og eirnen faa, Uppriſu Deigenum a, hædstum Heidre tilreiddur, af heilogum Einglum leiddur, i Sælu heim sialfum hiaa.

So munu Guds Einglar seigia: Siaaed nu þenan Man, Hvørn allskins Eymd vied beya, aad-

ur

ur i Heimsins Rani, Oprvaxtha yrelldur han, fyrer Blood Lambsins blijda, Bwen er nu ad strijda, og sælan Sigur van.

Pa muntu Saal mijn svara, sijngiande fogrum Ton, Lof sie mijnum Lausnara, Lamb Guds a hædsta Thron, Sigur gaf sijnum Pioon, um blessadar Himna Haller, honum seigium vier aller, Heidur med sætum Soon.

Son Guds ertu med Sane, Sonur Guds JEsu min, Son Guds Syndugum Mane, Sonar Arf skeinkter þin, Son Guds eirn Eingieten, Syne Guds sijnge gladur, sier hvor lifande Madur, Heidur i hvort eitt Sin, Amen.



## XXVI. Psalmur.

### Samtal Pilati vid Christum.

Ton, Hædste Gud HErra millde, etc.



HEyr þa um Guds Son heyrde, heidin Lands-Doomare, han spyr (hvi hrædast giorde) hvadan vor DRotten sik, en Jesus þijdur þagde, þad og vel maklegt var, Pilatus brædt ad Bragde, bistest og aptur sagde, villt þu ei veita Svar?

Mijn er þad mættu jata, Magten so Tignarlig, Jeg maa vel lausan laata, lijka Krossfesta þig; JEsus svarar og seiger: Sijst ættu Vald aa mier,

er, Ef þier være þad eige, ad ofañ giefed, so meiger, Heidre þeim hallda hier.

Sa hefur Synd eñ meire, er selde mig þier a Hond: Pilatus hygg eg þad heyre, hañ grundar Maaleñ vond, giörde strax Grida ad leita, gaafu Prestarner Ans: Vægd ef þessum villt veita, viist mattu ecke heita, kiær Vinur Keysarans. †

Heidingiar hallda giordu, Hia-Guder þeirra señ, Börn ættu aleñ a Jordu, eins og holldleger Meñ, hañ Ottast hier ef være, HErrañ Godaña Kyns, hugde þvi hellst ad bære, hryggelega frams-fære, Rañsookn Riettdæmesins.

Skwrgod siin Heidner hielldu, hafande i mestu Ackt, Forgiefens Hug siñ hrelldu, hræddet vid þeirra Magt. O! hvorsu framar ætte, eirn sierhvör Christeñ Mañ, Ottast DRottens Almætte, Med Ast og Blygdunar Hætte, sem Stolltum steypa kañ.

Af stoorre Magt sig ried stæra, stolltur Pilatus hier, Riett Maal til Rangs ad færa, Reiknade Leyfelegt sier, Kañ verä margañ meige, Meining sw villa þraatt, þo Logeñ brioote og beige, bañad sie þeim þad eige, fyrst Valld þeir hafa haatt.

Gud er sa Vollldeñ giefur, giæte þess ædre Stiett, sitt Liene hvör eirn hefur, hier af Drottne til sett, hañ liet þig Heidur hlioota, Heidrast þvi af þier vill, Virdingar vel maatt nioota, eñ varast Drambsseme lioota, Roog og Rangindeñ Jll.

Yfervalld eirn Gud sende, Undermeñ giæte þar ad,

ad, Sverd Drottens hefur i Hende, heidra skulum vier þad, hlijduger Fride hallda, Hlijfd og Forsvare nad, Þverlyndis Priootskañ kallda, þwnglegre Hefndar-Giallda, ad viisu sier vænta mad.

Eins sem hvor eirn misbrijtur, epter þvi straffast hañ, hardare Hefnder hlijtur, hiñ sa meira til vañ: þeim mun ei Plagañ þverra, sem þriootkast i Synda Root, sa Pioon a Von hins verra, sem Vilia þecker sijns Herra, þo giorer þvert a moot.

Vardveite Vallds-Meñ alla, Vor Gud i siñe Stiett, so varest i Vondsku ad falla, vel stunde Log og Riett, hiner i Hlijdne stande, hvor so sem skylldugt er, hrein Trw og helgur Vande, halldest i voru Lande, Amen þess Oskum vier, Amen.



## XXVII. Psalmur.

### Pilati Samtal vid Gydinga a Doom-Stoolnum.

Ton, Skapareñ Stiarna Herra Hreirn, etc.

†

PIlatus heyrde hvstad var, honum Keysarans Reide þar, wtleidde JEsum añad Siñ, uppsest þegar a Doom-Stooliñ.

Gydingum sijdañ sagde hier, Siaed þar ydar Kongur er, þeir badu, tak þeñañ burt fra oss., Bradlega laat hañ deya a Kross.

Skal eg Krossfesta Kong ydvarn, kallar Pilatus Hædnis giarn, Aungvañ Kong seigia þeir aptur hier utañ Keysarañ hofum vier.

Gudspialls Historiañ hermer fra, heiter sa Stadur Gabbatha, hæva Stein Stræte þijder þad. † þar mættu Saal mijn giæta ad.

Vei þeim Doomara er veit og sier, viijst hvad uñ Maaled riettast er, viñur þad þo fyrer Vinskap Mañs, ad vijkia af Gøtu Sañleikans.

Pilatus Keysarans hræddest Heipt, ef honum yrde vor Volldum steipt, þetta sem hellst nu varast vañ, vard þo ad koma yfer hañ.

O! vei þeim sem ad Oriett Log, uñgangast og þau tijdka miøg, Sañleiknum meta sitt Gagn meir, Svijvirding DRottne giøra þeir.

Huga snij eg og Maale mijn, miñ goode JEsu eñ til þijn, Pilatus Kong þig kallar hier, Krossfesting Judar Okka þier.

Vijst ertu Jesu Kongur klaar, Kongur Dijrdar uñ eilijf Ar, Kongur Einglaña, Kongur vor, Kongur Almættis Tignar stoor.

Po stoodstu bunden þar fyrer Doom, þo leidstu Hroop og Kvala-Room, afseigia giørdu aller þig, undrar stoorlega þetta mig.

O! JEsu þad er Jartning mijn, Jeg mun uñ sijder nioota þijn, þegar þu Dijrdar DRotteñ miñ, Doomstool i Skyum setur þiñ.

Freilsadur kiem eg þa fyrer þiñ Doom, Fagnadar sæläñ heyre eg Room. J þijnu Nafne Utvalder,

valder, Utvalen̄ kalla mig hiaa sier.

Kong min̄ JEsu eg kalla þig, kalla þu Præt þin̄ aptur mig, Herra-Tign aungva ad Heimsins Sid, helld eg þar meiga jafnast vid.

Hæva Stein-Stræted Heimsins sleypt, hefur mier opt i Vanda steypt, þængad liet JEsus leida sig, so Lyknen̄ han̄s kome yfer mig.

JEsu þijn Christne kijs þig nu, Kongur hen̄ar eirn heiter þu, Stiorn þijn hen̄e so hallde vid, ad Himneskum næe Dijrdar-Frid, Amen.

* * * * * * * * * * * * * * * * * * *

# XXVIII. Psalmur.

## Um̄ Pilati Handa-Pvott og Doom.

Ton, Nu bid eg Gud þu Næder mig, etc.

†

PJlatus sæ ad soon̄u þar, sijn Ræd mæattu ei gillda par, Upphlaup sier hwed hræddest han̄, hugde ad stilla Vanda þan̄, Fullnægia villde Foolksins Boon, sæ skyllde JEsus Daudans-Tioon, San̄leika aungvum syn̄te meir, so dæmde allt sem beiddu þeir.

Hendur i Vatne þa nam þvo, þar næst vid Juda mællte so, sialfer um̄ ydur siæed hier, Saklaus vid Riettlæatt Blood eg er, allur Almwgen̄ uppaa bad, Andsvarar greidt i þessum Stad: han̄s Blood (þo nu han̄ kvelie Kross) kome yfer Bornen̄ vor og oss. †

Pilatus hafde proofad þar, Piislar-Sok DRottens eingen var, fyrer og epter eins ried han, Urskurda JEsum saklausan, þo moot Samvitsku sine þvert, sialfur villande dæmde bert. Gud giefe ad Yfervølldeñ vor, Varest þaug Dæme Glæpa stoor.

Hvad margur nu i Heimenum, hier fyrer lastar Pilatum, sem þo elskar og jdkar mest, Athæfe hans og Dæmen vest? Otten i Doome opt sær Sess, Yfer-Herrarner niootá þess, Almwgans Hrosun olle þvi, Illgiarner Skælkar hlaupa frij.

Abata-Von og Vina-Hoot, Verken dylia þo sieu lioot, lijka kiemur sw Fordilld fram, sem forsvarad gietur Barrabam, giefst þa Raunen hvad gillda skal, Gull-Tungan sw sem Achan stal, mær skie og þigge Mwtur hiñ, meir eñ Pilatus þetta Siñ.

Eg spyr, hvad velldur Odygd flest, Eykst nær Daglega og fiolgar mest? Umsioonarleyse er Orsok hædst, Eigen Gagnsmuner þessu næst, Mwskun sem heiter Skælka-Skiool, skigneft epter um sæniijtt Hool, Otten Logen svo þvijngar þræt, þora þaug ecke ad lijta hætt.

Fyrer Foolkenu þegar þar, þvode Pilatus Hendurnar, fyrer Gude sier þan giorde Grun, gillda munde sw Assokun, varastu madur Heimsku hans, hier þo þu viller Siooner Mans, Almættug DRottens Augsijn skiær, Allt þitt Hiarta rañsakad sær.

Villtu

Villtu þig þvo, þa þvo þu hreint, Vel Hiartans bæde liooſt og leynt, ein Laug er þar til Edla good, Ydrunar Taar og JEſu Blood, graat þijna Synd, eñ ſet þitt Trauſt, a Sonar Guds Pijnu Eſalauſt, laat af Jllu, eñ jdka Gott, allañ varaſtu Hræſnis Þvott.

Bloods Hefnd a ſig og Born ſijn med, blindadur Lijdur hroopa ried, Efldeſt ſo þeſſe Oſkeñ kolld, eñ i Dag bera þeir heñar Giolld. Athuga giarn og Ordvar ſiert, einkum þegar þu reidur ert, Formæling illañ ſiñur Stad, Faſt meiga Dæmeñ uppa þad.

DRotteñ JEſus ſem dæmdur vart, Doomare kiemur þu aptur ſnart, Dooms-Meñ laattu til Dijrdar þier, Doomana vanda riett ſem ber. Þvo þu vor Hiortu og Hendur med, hrein Triw vardveite rooſamt Gied, þitt Blood flecklauſt ſem flvode a Kroſs, frelſe þad Borneñ vor og oſs, AMEN.

* * * * * * * * * * * * * * * * *

## XXIX. Psalmur.

### Uñ Barrabas Frelſe.

Ton, Eins og ſitt Barn, etc.

†

SEllde Pilatus ſaklauſañ, Son Guds til Kroſſens Dauda, Upphlaups-Madur ſaa Vijg eitt vañ, þa Frelſe fañ, fieck Lijf eñ miſte Nauda,

I Myrkva-Stofu sa bundeñ beid, Barrabas trw eg hañ heite. † Mær hier fiñast ein Merking greid, um Mañkyns Neyd, miøg skijr ad ollu leite.

Barrabas fra eg Fødurs Nid, flester lærder Meñ þijde, Adam lijkest þar Eflaust vid, og allt hañs Lid, sem ærfiell Daudans Kviijde.

Upphlaups Madur hañ ordeñ var, þa Epled i Muñ sier leidde, siælfs Guds Bodorde sýñte ei par, og sijdañ þar, sig og allt Mañkyn deydde,

I Diøfuls Fiøtrum fastur lær, fængeñ til eilijfs Dauda, aller hañs Nidiar wti fræ, med Synd og Præ, ættu Von Kvala og Nauda.

Hier þa JEsu var Heled kalldt, af Heidnu dæmt Yfervallde, Fieck Adam aptur Frelsed sniallt, og Foolk hañs allt, sem fagnar þvi Lausnar Giallde.

Nu fyrst eg Adams Nidie er, Nær mier geingur þad Dæme, Saal mijn set slijkt fyrer Siooner þier, og siædu hier, sañferdugt Lærdooms Næme.

O! hvad opt hef eg Aumur giordt, Uppreisn moot DRottens Anda, Daglega þvi hañs Bodord bert, so braut eg þvert, mier bar þo i Hlijdne ad standa.

Mun og ecke vid Mañdræp frij, mijna Sæl þrætt eg deydde, Jll Dæmeñ gæfust af mier nij, og Nauder i, Næungañ þar med leidde.

O-frægur er eg ordeñ mest, Allar Skiepnur þad saña, Færædum eckert Forsvar siest, Fængelsed vest, Fyrer þvi hlijt eg kaña.

J Myrkva-Stofu eg bunden bijd, Bolvan Logmaals mig hræder, Dapurt naalægest Daudans-Strijd, og Domsins-Tijd, Daglega Sorgen mæder.

Heyre eg nu þañ Hiaalpar-Room, ad hafer þu JEsu millde, fyrer mig lided Lijflaats-Doom, þijn Lijkneñ froom, lausañ mig kaupa villde.

Su heilaga Aflausn, Hrygd og Swt, af Hiarta mijnu greider, Syndaña leyser Hleckia-Hnwt, og hier næst wt, wr hordu Faangelse leider.

Hvad Dauda saknæmt saast aa mier, (soddañ Myskun eg þecke) Til Dauda allt var dæmt aa þier, miñ DRotteñ hier, Doomenum kvijde eg ecke.

Mitt Lijf og Saal þig lofar nu, leyst fraa Daudañs Faangelse, eg life eda dey, þad er mijn Trw, Obrygdul sw, J þijnu JEsu Frelse.

Himneskre Paaska Haatijd aa, hef eg nu þess ad bijda, Myrkva-Stofuñe frelstur fraa, eg fagna þa, J Flocke Utvalldra Lijda.

So er nu Barrabas ordeñ frij, Adam og eg hañs Nidie, hvor Christeñ Saala Heime i, vorn HErra þvi, Heidre, Lofe, Tilbidie, Amen.



# XXX. Psalmur.

## Uñ Christi Krossburd.

Ton, Twnga mijn af Hiarta Hlivvde, etc.

Strijds-

†

STrijds Meñ Christ wr Kæpu færdu, og klæddu hañ sijnum Bwning i, sollnar Under sart vid hrærdu, þær svidu og blæddu uppa nij, a blessudu sijnu Bake særdu, hañ bar siñ Kross og mæddest þvi.

Skiede svo a samre Stundu, Simon nockurn bar þar ad, Framande Mañz er gieck uñ Grundu, gripu Judar hañ i Stad, Krossenum a hañs Herdar hrundu, hañ gieckst naudugur under þad. †

Peir sem (Saal mijn) Synder drija, Samvitskuñe þvert a moot, Under DRottens Endurnija, ef ecke giøra a Lostum Boot, vid skulum fra þeim Flocke flija, og Fyrergiefningar bidia af Root.

Uppa Heimsins Oþacklæte, er hier Dæme ljosst til Sañs, Margañ læknade Son Guds sæte, siwkañ medal Almwgans, nu var ei neirn sem Bøled bætte, og bære med honum Krosseñ hañs.

Simon bæde og Syne hañs baada, sialf hier nefner Historiañ: Gudhræddur skal niota Naada, og Nidiar marger epter hañ, Mijskunsemd vid Meñ faraada, miñast Gud og launa kañ.

Framande Madur mætte Christe, med honum bar hañs þwnga Kross, hier maa siña hvorn þad lister, hreina Pijding uppaa oss, Gydinga Foolk þa Guds Naad miste, Gafst Heidingium Dijrdar-Hnoss.

Synda-

Synda-Under ijfast mijnar, Opt at hvorre Stundu nær, Samvitskuñar Sorg ei dvijnar, Svida-Meined illa græer, Blessadar JEsu Beniar þijnar, Bid eg mijke og lækne þær.

Þesse Krossens þwnga Byrde, Þier var DRotteñ løgd at Bak, so Fyrermindan fylld sw yrde, þa Foornar-Videñ bar Jsaach, Sat þiñ Gaangureñ Sorgar-styrde, Af Saalu miñe took Omak.

Miñest eg at Piaaning þijna, þig sw mædde Byrdeñ strijd, Saũlega fyrer Saalu mijna, sodd-añ leid þijn Giædskañ blijd, Vegna þess mier vird-stu ad sijna, Vorkunseme nær eg lijd.

Holld er tregt miñ HErra millde, J Horm-ungunum ad fylgia þier, þo eg seigeñ seta villde, Footspor þijn sem skylldugt er, Vilieñ miñ er i veiku Gyllde, Þu verdur þvi ad hialpa mier.

Elsku-Gied so þitt eg þecke, þiadum villtu sijna Lid, laattu mig DRotteñ Einañ ecke, i Anaud miñe, þess eg bid, Nafned mitt, þo Nauder hne-cke, Naad þijn blessud kañest vid.

Komer þu under Krosseñ straanga, Christeñ Saala, giæt þess hier, ef Holldeð tekur ad møgla og maanga, miñstu hvør þijn Skylldañ er, Laattu sem þu siaer gaanga, siaalfañ JEsum undañ þier.

Under Krosse Jllvyrkiaña, alldrei hier þig fiña laat, varástu Glæpe vondra Maña, at Verkum þijnum haf þu Gaat, Ydka Bæn og Ydran saña, Elska giarnañ Hoof og Maat.

Hak

Haf þu JEsu mig i Miñe, Mædu og Daudans Hrelling stytt, Born mijn hiaa þier Forsioon fiñe, fraa þeim ollum Vanda hritt, lattu standa a Lijfs-Book þiñe, Lijka þeirra Nofn sem mitt, Amen.

# XXXI. Psalmur.

## Predikun Christi fyrer Kviñunum.

Ton, Sea friaals vid Logmaal fæddur er, etc.

†

HOlked sem DRottne fylgde wt, fyllteſt margt Angre hordu, Kviñurnar grietu saart med Swt, sem hañs Kvol aumka giordu.

Snere til þeirra Son Guds sier, sagde þa Herrañ mætur: Graate þier ecke yfer mier, O! Jerusalems Dætur.

Sonu ydar og eigeñ Eymd, eflauſt þier graata meiged, nalgaſt ſw Tijd ſem nu er geimd, nær þier harmande ſeiged:

Sæl nu Obyriañ Barnlaus er, og Briooſt þaug ei ſogeñ voru, hrinie yfer oſs Halſarner, Hæder og Fiolleñ ſtooru.

Ef giort er ſo vid þad græna Trie, gieta hvor til þeſs næde, hvad hid þornada þa mun ſkie? † þad trw eg JEſus ræde.

O! hvad Veralldar Virding er, vollt og ſvikul

kul ad reyna, giæt þess, mijn Saal, og sioadu hier, sañproofad Dæmed eina.

A Palma Suñudag sialfur iñ, Son Guds i Borg nam rijda, Ast-viner hañs þad sama siñ, sungu Lof aan alls Kvijda.

Faam Dogum sijdar sialfur wt, særdur med Kross nam gaanga, þad hlutu hañs Viner ad siaa med Swt, Sorg Hiartans baaru straanga.

Hafe so vered vollt og flaa, Verollden HErra sijnum, hvors maa sier vænta Prælleñ þa? þess giæt i Huga þijnum.

Þeim sem hun blijdur Blijdleik siñ, hweñ er Sorgeñ mesta, hirdtu þvi alldrei Huga þiñ, vid hana mijn Saal ad festa.

Sañlega skylldugt seige eg mier, saara þa Kvøl ad graata, sem DRotteñ JEsu þwngt ad þier, Preingde i allañ Maata.

Samt er þier ecke þient med þvi, þott eg þig aumka villde, Eilijfa Haatign ert þu i, upphafeñ JEsu millde.

Par maa nu helldur aukast af, Angur Sainvitsku miñar, Orsøk eg til og Efne gaf, allrar Hormungar þiñar.

Ervide hefe eg auked þier, ofþwngt med Syndum mijnum, Glæpaña sem eg giørde hier, gallstu a Hollde þijnu.

Hrædest eg mier sie huleñ geimd, sw Hefndar Pijnañ straanga, þvi eg vañ til ad eilijf Eymd, yfer mig skyllde gaanga.

Eñ þo gled eg mig aptur vid, Avoxteñ Kvala þiña, þar af ødlast eg Frelse og Frid, og Forlaat Synda miña.

Angisteñ saar og Sorgar-Laat, Er Saal hellst þiaadu mijna, sniist i Fognud og Feigeñ-Graat, fyrer þa Myskun þijna.

Vid eg nu JEsu bliide þig, sem Boot mier giørder viña, Laat aungvañ giallda epter mig, Jllsku nie Synda miña, Amen.

# XXXII. Psalmur.

## Uñ Græna og Visna Tried.

Ton, Nu Kom Heideña Hiaalpar Raad, etc.

†

DReiner JEsus uñ Græna Tried, gietur hiñs Visna eirneñ med. † Vid skulum, Saal mijn, skoda aa nij, skijrañ Lærdoom aa Maale þvi.

Frioofgunar Eykeñ vokvud væn, vel bloomgud stood med Laufeñ græn, þegar aa Jordu sast til sañs, Son Guds J-klæddur Hollde Mañs.

Lijssins Avexte liwsa bar, Læknade JEsus Sootternar, Fraa Diofle leyste og Daudans Pijn, Daufum gaf Heyrn, eñ Blindum Sijn.

Af hvørre Grein draup Hunaang sætt, Hiaalpræðis Kieñing sieck hañ rædt, øll hañs Umgeingne aastwdleg, aangradar Saaler gladde mieg.

Gude

Gude var þeckt þad græna Tried, gloddust Himnar og Jorden med, i hans Fæding þad vitnast van, Og vid Jordan, þa skijrdest han.

Riettlætes allan Avoxt bar, Jn til Kross Dauda blijden var, Saklausa Lambed Son Guds eirn, Af Synd og Lijtum klaar og hreirn.

Po mætte ei þad Edla-Trie, Angurlaust vera a Jordunne, Guds Reide-Stormur geisa van, Gieck þvi Refsingen yfer han.

Ef þu spyr ad, Hvad vallda van, villde Gud læta Saklausan, Sonen komast i Sorger þær, sem honum var þo Hiarta kiær?

Pu skallt vita ad visnad Trie, Var Mannkyn allt a Jordune, Ofan ad Rootum uppþornad, Avoxt Rænglætis færde þad.

Skadsemdar-Tried sem skiemde Jord, skipade Drottens Reide hørd, upphoggva, so þad ecke þar, Akrenum sie til Spillingar.

Vor JEsus Mønum vægdar bad, vinast mætte ei ad feingest þad, utan han tæke uppa sig, Jllverka Giollden hryggeleg.

HErran Jklæddest Hollde þa, hijngad kom til vor Jordu a, Visnadre Eyk gafst Vokvan good, þa vard wthellt hans dijra Blood.

Saklaus þvi leid han Sorg og Hæd, Syndugt Mannkyn so feinge Næd, hid græna Tried var hraked og hrist, hier af þad visna bloomgadist.

Guds Dijrdar Sæte sitt Holld i, Sonuren mætte ei hefia þvi, Fyrr en i Heime harda Neyd,

hafde þolad og Krossens Deyd.

O! hvad Mañs Hölld er Heimsku fyllt, hrigge-lega wr Maata villt, viliande i Lostum liggur þad, leikur sier allskins Glæpum ad.

Marger ætla fyrst ecke strax, afellur Hefndeñ sama Dags, DRotteñ þa alldrei mune meir, miñast a þad sem giordu þeir.

Þvi gooda Trienu þyrmt var sijst, þurrum Fausk mun þvi Bææled vijst, Hafe Fadereñ hyrt siñ Son, Hefndar mun Prælleñ eiga Von.

Ef nu Guds Milldeñ æstwdlig, o-hegnda Sææk mijn lijdur þig, hañs Poleñmæde halltu hier, Hiaalprædis Medal giefed þier.

Visnad Trie eg ad vijsu er, Vægdu Riettlæt-is HErrañ mier, Giæskuñar Eikeñ græn og fijn, geimdu mig under Skugga þijn.

Von er ad mier sie Mootkast vijst, mun eg uñ-flija Daudañ sijst, Hollded mææ ei fyrer utañ Kross, eygnast a Himnum Dijrdar Hnoss.

Tæpte eg mijnum Trwar-Staf, a Tred sem drijpur Hunææng af, Sioon Hiartans ølluAng-rei, upplijsest, nær eg smacka af þvi.

Þegar mier gææanga Prauter nær, þier snw þu til mijn JEsu kiær, Hiartad hresse og Huga miñ, Himneskur Naadar Vokve þiñ, Amen.



33. Ps.

# XXXIII. Psalmur.

## Um̃ Christi Krossfesting.

Ton, Konung David sem kiende, etc.

†

SOm loks med Krossens Byrde, Christur i Hausastad, Orþiadur fra eg han̄ yrde, Edik Galle blandad, honum þeir hielldu ad, O Rotten̄ vor Dijrdar millde, drecka þo ecke villde, þa han̄ smackade þad. †

Fals under fogru Maale, Fordilldar Hræsnen̄ ber, Vinaatta temprud Taale, og Trwarlaus Ydrun hier, Edik Gallblandad er, soddan̄ Swrdreggia Vijne, (þo sialfst glislega skijne) HErran̄ hrinder fra sier.

Pad tek eg vijst til Packa, þa þu villt O Rotten̄ kiær, Swrt med þier sialfum smacka: sie þijn Miskunen̄ kiær, i hvorre Neyd mier nær, Gallbeiskiu Bolvanen̄ar, og Bikaren̄ Heiptaren̄ar, burt tak þu fra mier fiær.

† Naken̄ JEsum a Jordu, Judar Krossfestu þar, med Heiptar Sin̄e hordu, Hendur og Fæturnar, Teigt allt og togad var, Gieck so Jaarn Gaddur nistur, giegnum Loofa og Ristur, Skin̄ og Bein sundur skar.

Tveggia Mordingia mille, Myskunar HErran̄ hieck, Spaadoomen̄ fra eg so fylle, sem fyrmeir

meir um̃ þad gieck, Ræder ſo Ritning þeck, Þwoñ miñ ſaa Eirn Utvaleñ, er med Spillvirkium taleñ, Forſmaan miog þwnga ſieck. †

Nu eg miñeſt a næſta, Nakeñ þa Adam ſtood, Vid Tried med Hormung hædſtà, Hiarta-Sorg, Bol og Mood, þvi Verk hañs voru ei good, Jñvortis Angred kvalde, under Triaanum ſig falde, Þeſs gallt øll Heimſins Þiood.

Nu aptur JEſus nakeñ, negldur a Trienu ſtood, Þijndur, Hwdſtrÿktur, Hrakeñ, Hiartans bar ſaaraň Mood, þo voru øll Verk hañs good, Eirn fyrer aungvum faldeſt, Opeñberlega kvaldeſt, þeſs naut øll Heimſins Þiood.

Horfe eg a Hendur þijnar, HErra miñ JEſu kiær, fyrer Misgiorder mijnar, Meineñ ſlijk lidu hær, Blood Dreyreñ dunds ſkiær, Saurgun Saalar og Handa, ſem mier komu i Vanda, af hreint med øllu þvær.

Fws var eg fram̃ ad hallda, Ferel Glæpaña hier, þeſs Fætur þijnar giallda, þad vard til Lijknar mier, DRotteñ eg þacka þier, fram̃ a Fridarens Leider, Footſpor mijn jafnañ greider, hiedañ af hvar eg ſer.

Gud giæfe mitt Holld mætte, med þier Kroſsfeſtaſt nu, fraa øllum Jllſku Hætte, Oſk mijn er Daagleg ſw, miñ HErra þad veitſt þu, uppa þad Ond mijn kyñe, Ohindrud Giædſku þiñe, þioona med þijdre Trw.

Eirn med Jllrædis-Moñum, aller þig hielldu

þa;

þa, sem i Heilagleik sonum, sialfur komst Himnum fra. Nu eg þess nioota ma, af þvi eg er wtvalen, med odrum Guds Bornum talin, þar treyste eg Eflaust a.

Jeg mun æ medan hiare, minast a Krossenn þin, Heimsins lifse Lausnare, Lijfgar þad Huga min, hvort eg geing Ut eda Jn, af innstum Astar-Grunne, ætijd med Hiarta og Munne, Seigiande hvort eitt Sin.

JEsu Christi Kvol Eina, A Krossenum fyrer oss skien, Sie mijn Saattargiord hreina, og Synda-Kvittunen, af sialfum Gude sien, uppa þad Ond mijn vonar, J Nafne Fodurs og Sonar, og Heilags Anda, Amen.



# XXXIV. Psalmur.

## Fyrsta Ord Christi a Krossenum.

Ton, Lifande Gud þu lijt þar a, etc.



VEgar Kvalarar Krossen a, keyra vorn HErra giordu, Flatur med Trienu lagdur la, Lausnaren nidur a Jordu, Andlited horfde i þeim Stad, og Augun hans Blessud Himinum ad, hann stunde af Angre hordu. †

Sin Fadm allt eins og Barned blijdt, breidde moot Fodurnum kiæra, Blooded dunde og Tar-

reñ tijdt, titrade Hollded skiæra, hier skoda Madur Huga þiñ: hvad kuñe meira nockurt Siñ, Drotteñ til Hefndar hræra?

† Ovinum Fridar blijdur bad, Bruñur Miskunariñar, hañ vill þeir niote eirneñ ad, Avaxtar Pijnu siñar, sagde: Fader þeim fyrergief þu, Forblindader ei vita nu, sialfer hvad vondt þeir viña. †

Lausnara þijnum lærdu af, Lunderne þitt ad stilla, Hoogværdar Dæme gott hañ gaf, nær giera Meñ þier til Illa, Bloot og Formæling varast vel, a Valld Guds allar Hefnder fel, Heipt læt ei Hug þiñ villa.

Poott þu vid adra Saklaus siert, sañlega skallt þess giæta, Samt fyrer Gude sekur ert, sa a þig frialst ad græta, Iller Meñ eru i Hende hañs, Hyrtingar Vondur Syndugs Mañs, Eingeñ kañ þess ad præta.

Ovinum Ills þo offer hier, ei minkar Heipteñ þeirra, Oþoleñmæde eykur þier, afræker Bod þijns HErra, þu stygger Gud med soddañ Sid, Samvitskañ miøg þar sturlast vid, Tioon þitt verdur þvi verra.

Uppliistu Hug og Hiarta mitt, HErra miñ JEsu sæte, so ad eg Dijrdar Dæmed þitt, Daglega stundad giæte, þeir sem Oforþient angra mig, Offa eg hellst ad betre sig, so hia þier Myskun mæte.

Heimsins og Diøfuls Hreckia Viel, Hollded þrat=

þrælega villa, þess vegna ecke þecke eg vel, Po nu margt giore eg illa, bere so til eg blyndest hier, bid þu þa JEsu fyrer mier, þad mun Hefnd harda stilla.

Eg maa vel reikna aumañ mig, eirn i Flock þeirra Maña, sem i Kvolleñe þiaadu þig, þad voru Giolld Syndaña, eñ þu sem bætter Brot mijn hier, bid þu og lijka fyrer mier, so fare eg Frelsun saña.

Fyrst þu badst Fridar fyrer þa, er Forsmaan þier giordu mesta, vissulega eg vita maa, villtu mier allt hid besta, þvi eg er Guds Barn og Brooder þiñ, blessade JEsu HErra miñ, Naad kañ mig nu ei bresta.

Allra sijdast þa a eg hier, Andlaate mijnu ad gegna, sie þa miñ Gud fyrer Sioonum þier, Sonar þijns Pijnañ megna, þegar hañ lagdur laagt a Trie, leit til þijn Augum Graatande, væg þu mier þa hañs vegna.

# XXXV. Psalmur.

## Uñ Yferskriftena a Krossenum.

Ton, Natturañ oll og Edle Mañs, etc.

Yfer Skrift Pilatus eina liet, yfer Krossenum standa, JEsus nefndur af Nazareth, Nijr Kongur Gydinga Landa (Drottne med

med San, Doomareñ jañ, Dauda Sok aung-va stærre) Margur las þad, i þessum Stad, þvi hañ var Borg so nærre.

Þad var ritad og hañeñ sett, i þreñslags Tungu Maale, Valldsmeñ Juda þad visßu riett, Vilia þvi Pilatus briaale, hañ ansar greidt, ei skyllde neitt, um̃breitt og framar tiaade: hvad skrifad er, skal standa hier, † so skiede af Drottens Raade.

Þar nu a Krosse HErrañ hieck, hier ad mijn Saala giætum, Virdingar Titil fagrañ fieck, med Forpriis Sakleysis mætum, ad Hiaalparsws, heiter JEsUs, Heimsins Lausnareñ goode, hvor Diøsle fraa, oss frelsa maa, flecklaus med sijnu Bloode.

Nazarenus hañ nefnest þar: Naatturu Spilling Maña, fraaskileñ eirn ad vijsu var, Velþecka Hlijdne saña, sijnde hañ hreint, liooft bæde og leint, Lifanda Gude Einum, hañs Tignar-Son, Trwr, forsiaall Pioon, tryggur i ollum Greinum.

Kongur Gydinga klaar og hreirn, J Krapte Gudlegum drottnar, saa Davids-Stool skal erfa eirn, alldrei hañs Rijke þrotnar, Jsraels-Hroos, Heideña-Lioos, heiteñ Forfedrum leinge, soddañ Titel, soomde riett vel, Saal mijn, þiñ HErra feinge.

† Soddañ Virdingu villdu hañ, Vonder Gydingar sneida, Heiptar Ofundeñ i þeim brañ, af þvi Pilatum beyda, Ordtak þad braadt, A

añañ Hautt, wrfæra ſi ttum Marta, hañ kvad vid Nei, Þvi þad vill ei, Þeim DRotteñ veitaſt laata. †

Dramblætum ſetur DRotteñ Skamt, med Diorſung ſijna og Hrecke, þeim lijdſt ſvo ſem hañ leyfer framt, Leingra komaſt þeir ecke, Allt ſkal mitt Tranſt, Eſunarlauſt, æ hañs Magt jafnañ ſtanda, Hvad munu mier, þa Meñerner, meiga i nockru granda?

J Preñſlags Tungum var þetta ſkræd, hviad vor HErrañ millde, v:llde ſijn Elſka, Aſt og Nææd, allre Piood byrtaſt ſkyllde, hvort Tungu-Mæl, med Huga og Sæl, heidre þig JEſu goode, ſem Kvoleñ þijn, og Kroſsens Pijn, Keypte fræ Synda-Moode.

Gieſdu ad Moodur-Mæled mitt, miñ DRotteñ þeſs eg beide, Fræ allre Villu klaart og kvitt, Kroſsens Ord þitt wtbreide, Uñ Landed hier, til Heidurs þier, Hellſt mun þad Bleſſan vallda, Medañ þijn Næd, lætur vort Læd, Lijde og Bygdum hallda.

Hand-Skrift var Ein yfer Hofde mier, hun mijna Sælu grætte, Oñur ſtood JEſu yfer þier, ſem Angur vors Hiarta bætte, JEſu þu ert, Utvaleñ bert, Under Kongs-Stioornan þiñe, Arla og Siid, Uñ allañ Tijd, Ohætt er Sælu miñe, Amen.



# XXXVI. Psalmur.

## Um̃ Skipteñ a Christi Klædnade.

Ton, Hvar munde vera Hiartad mitt, etc.

†

STrijds-Meñ þa hofdu Krossfest Christ, Klædnad hañs tooku snart, skiptu i Stade fioora fyrst, fa skyllde hvor siñ Part, a Kyrtel prioonadañ loost med Lyst, løgdu þeir Hlutkall diarft, Foolsku Verk medañ fullgiordest, Foolked a-horfde margt.

Ritning sw eina uppfylld er, adur var þar um̃ skrad, Skrwda mijnum þeir skiptu sier, Skijrlega þad er tiad, Hlutfalled yfer Fat mitt fer, fæ eg þess eirneñ gaad. † Set Madur slijkt fyrer Siooner hier, sia DRottens miklu Rad.

Nu maattu skilia nakeñ var, negldur DRotteñ a Kross, opeñbert sau aller þar, w truñeñ Dreira Foss, soddañ Forsmaan Guds Sonur bar, sañlega fyrer oss, hier giefst ollum aan Hilmingar, Himneskt Myskunar Hnoss.

Kalla eg merke Klædeñ hañs, Christnena i Heime hier, Um̃ fioorar Atter Folldar-rañs, Flockur sa dreifde sier, Lijf-Kirtell þesse Lausnarans, Liknar Ord blessad er, ville þvi skipta Skynsemd Mañs, Skilning Sañleiksins þver.

Ei liet vor DRotteñ Audlegd haa, epter i þessum

um Heim, Klæden sem han bar Hollde a, en hvorke Gull nie Seim, Po mætte ei hans Moder fa, hid minsta af ollum þeim, Iller Men Hende yfer þau sla, Alldrei þvi Dæme gleim.

Safna Hooflega Heimsins Aud, Hugsijken sturlar Sied, þigg af DRottne þitt Daglegt Braud, duga læt þier þar med, Hollded þa Jorden hylur raud, hlotnast mæ Imsum Fied, so þig ei ginne Gyrnden snaud, giæt vel hvad hier er skied.

Strijdsmanna Heypt og Hardydge, HErrans Kvol gat ei mijkt, þo vite noog han særdur sie, Sinned var Illsku rijkt, þeir sem Fantækan fyrra Fie, Foolsku Verk drija slijkt, Gud læte þig ei Glæp han skie, þu giorer annad þvilijkt.

Naken a Krosse hieckstu hier, HErra minn Gud og Mann, Fullnadar Borgun feingen er, fyrer mig Syndugann, þa Foorn DRottenn, og Saal mijn sier, sw gledst, en blijdkast hann, Brwdkaups Klædnad tilbiooſtu mier, þann besta eg gyrnast kann.

Hentuglega fiell Hlutur sa, HErra minn JEsu kiær, þu liest mig aumann finna og fa, Fagnadar Ord þijn skiær, þeim Klædafallde þreifa eg a, þegar mig Hrigden slær, Straumur Eymdanna stødvast þa, Styrk nijann Hiartad fær.

Hier þo nu skipte Heimurinn, hlæande Aude sijn, Endast sa Glaumur eitthvort Sinn, þa Efen Lijfsins dvijn, mier lættu hlotnast HErra minn, Hlutfall

fall næst Krosse þijn, svo Dijrdarfegurste Dreire
þiñ, driwpe aa Saalu mijn, Amen.



# XXXVII. Psalmur.

## Aññad Ord Christi a Krossenum.

Ton, Ef Gud er oss ei, sialfur hiaa, etc



UPpreistum Krosse HErrans hiaa, hañs Mooder standa nærde, Sverded sem fyrr ried Simeon spaa, Saal og Lijf heñar þiæde, Johañes eirneñ JEsu kiær, jafnt var þar lijka staddur nær, glogt saa ad ollu gaade.

Siñe Moodur hañ seigia ried, SON PJNN, LJTTU PAR KVJNNA, vid Læresveineñ Lijka med, Lausnareñ bliidt nam iña, SJA PU OG MOODUR PJNA PAR. þadañ i fra (sem skylldugt var), saa took hana til siña. †

Sa sem Hliidneñar sette Bod, siñe Blessan ried heita, þeim ed Forelidrum Styrk og Stod, stunda med Elsku ad veita. Soddañ Dygdaña Dæmeñ hier, DRotteñ vor sialfur gaf af sier, Bornunum epter ad breita.

Gyrnest þu Barn mitt Blessan saa, Biorg Lijfs og Giæfu sijna, Forelldrum skalltu þijnum þa, Pocknan og Hliidne sijna, Ungadooms Pverlynded optast nær, Olucku og Slis ad Launum fær, Hreckviisa Hefnder pijna.

Eckiur-

Eckiurnar siña eirneñ hier, Agiætis Huggun blijda, JEsus allt þeirra Angur sier, Umsioon þeim veiter frijda, ef þær med hreinum Huga og Sid, hallda sig DRotteñs Pijnu vid, og hañs Hiaalpræðes bijda.

Maria DRotteñs Mooder kiær, merker Guds Christne saña, Under Krossenum optast nær, Angur og Sorg maa kaña, til heñar lijtur þo HErrañ hijrt, Huggunar Orded sender dijrt, og Forsioon Froomra Maña.

Pad reinest opt i Heime hier, Hlutfall Drotteñs Astvina, Hormungar Sverded sært þa sker, Sælld Holldsins gledur hina, hvorier þo Christum hata mest, hefur þad laungum vidgeingest, lijtt vill þvi Angre lina.

Eñ þeir sem JEsum elska af Root, under hañs Krosse standa, HErrans Blood-sadme horfa a moot, hvorn þeir lijta i Anda, Trwar og Vonar Siooneñ sett, Saar hañs og Beniar skoda riett, þad mijker Mein og Vanda.

JEsus eirneñ med Ast og Naad, aptur til þeirra lijtur, Giefur Hugsvolun, Hiaalp og Raad, Harma-Bond af þeim slijtur, adgiæteñ Fodurs Auguñ klaar, oll reikna siña Barna Taar, Adstod þau alldrei þrijtur.

Jeg lijt beint a þig JEsu miñ, Jafnañ þa Hrygdeñ særer, J mijnum Krosse Krosseñ þiñ, kroptuglega mig nærer, sierhvort einasta Saared þitt, Sañlega græder Hiartad mitt, Og nijañ

Fognud

Fognud færer.

Pa eg Andvarpa, Oska og Bid, Augunum Trwar minar, Lijt eg hvört einast Orded vid, upp til Kross-Pijnu þinar: Strax sijna mier þijn signud Saar, Syndugum Mañe opeñ staar, Bruñur Blessunariñar.

Glede-Stund Hollds þa giefur mier, Gud miñ ad Vilia sijnum, Uppa þig JEsu horfe eg hier, Hiartans Augunum mijnum, Audlegdar Giædeñ Lijkamlig, Laattu þo alldrei villa mig, fraa Krossens Fadme þijnum.

Jonas sat under einum Lund, aungra Meina þvi kieñde, Hadeiges-Soolar Hita-Stund, hañ ei til Skada breñde, JEsu Kross-Skugga Skioled hier, skijler þo laangtum betur mier, fyrer Guds Hefndar Hende.

Hvört eg Sef, Vake, Sit edur Staa, i Sælu og Hættum Nauda, Krosse þijnum eg helld mig hiaa, horfande a Blood þitt rauda: Laat mig eirneñ þa Æfeñ þver, wt af sofna a Footum þier, so kviijde eg sijst vid Dauda, Amen.

## XXVIII. Psalmur.

### Uñ Brijxleñ sem Christur leid a Krossenum.

Ton, JEsus sem ad oss frelsade, etc.

Þeir

†

HEir sem ad Christi Krosse señ, Komu og fram̃ hiaa geingu, Hristu med Hæadung Høfudeñ, hønum til Bryxlis feingu, Heit-Ord sijn hefde hañ hallded lijtt, HErrañs Rustere ad brioota, a Premur Døgum añad nijtt, Efna med Bygging fliota. †

Tveir lugu soddañ Fals-Meñ fyrst, fyrer Caiphas Doome, af þvi hafde þad wtbrest, epter Fiolmeñis Roome, þesser þo hafe heyrt og sied, HErrañs Jardteikner frijdar, Lijgeñ þeim betur gafst um̃ Gied, geingur so eñ til vijdar.

† Ølldungar Landsins, Foolked flest, og Flockur Heideñ Strijdsmaña, HErrañ vorn JEsum hæddu mest, med Hofdingium Prestaña, Søgdu: ef ertu Son Guds kiær, sa þig med Krapte stidur, Kom þu hier, So þad siaaum vær, sialfur af Krosse nidur.

Hañ sa ed ødrum hefur hier, hialpad og læknad marga, megnar nu ecke ad søñu sier, sialfum wr Neyd ad biarga. Soddañ Hadyrde, Hroop og Daar, hlaut þa JEsus ad lijda, stood þad yfer um̃ Stunder Priaar, Stutt var Andlaats ad bijda. †

Pa fram̃ hia Christi Krosse nu, kallsande helld eg gaanga; sem ecke af Hiartans Ast og Trw, elska hañs Pijnu straanga, Heilagleik sijnum hroosa frii, vid Holldsins Fijsn sig binda, sijdañ falla Ørvænting i, edr Forherding Synda.

Ad þijnum Krosse Christe kiær, kiem eg sem einn Framande, gief þu mier Leyfe ad ganga nær, Gied mitt styrke þiñ Ande, so eg hugleide hvad til kom, Hardung, Bryxl-Ord og Pijnu, leidstu Mañgiædsku Mildeñ froom, Moote Andlaate þijnu.

Saal mijn og Lijf þær Sæmder hlaut, sialfs Guds Mustere ad heita, i Skijrneñe, þvi eg þijn ad naut, þad nam Guds Ande ad veita, sijdañ hefur þad Syndeñ morg, saarlega giort ad brio-ota, Hollds Naatturañ þvi elskar org, Athæfed Heimsins lioota.

A þremur Døgum þar a moot, þvi hiet eg morgu Siñe, med Ydran, Trw og Yferboot, aptur þad bætast kyñe, Æ! hvad veiter slijkt ervidt hier? Efneñ og Dug vill þverra, Bryxled sem til var bwed mier, Bar þvi JEsus miñ HErra.

J Velgeingneñe eg hroosa hatt, Hraustleika Trwareñar, i Mootlætenu hun bilar bratt, Brest siñ eg stooraň heñar, eingeñ fullkomeñ a mier siest, Avoxtur Dygda sætur, bar þvi fyrer mig Bryxled vest, Blessadur JEsus mætur.

Hialpa læst eg med heilnæm Raad, hinum sem illa breita, sialfs mijns Lijta þo sijst sæ gaad, soddañ ma Blindne heita: mier var þar stærsta Miinkun ad, maatte Hardyrdum kvijda, burt took nu JEsus Boled þad, Bryxleñ þvi villde hañ lijda.

JEsu i þijnu Andlaate, yfer þig Bryxleñ dundu, ad so i Fride Aund mijn sie, a miñe Dauda-stundu,

stundu, Hædung leidstu af øllum eirn, alla iraa Hædung leyster, alldrei tapast sa nockur neirn, er Nafn þitt uppa treyster.

Nær sem Hreckvijsra Hædung nij, Hiartad mitt saart vill stanga, under þiñ Kroß eg feigeñ flij, fraũ hiaa skal eige ganga: þar stend eg kyrr, þo Kalls og Spie, kveike mier Heims Oblijda, uppaa þig JEsu eirn eg sie, allt vil eg med þier lijda.

Fyrst þu varst hæddur HErra, þa, Harma Kvøl leidstu slijka, so heidre þig nu hiedañ i fra, Himnar og Jordeñ lijka, aller Einglar og øll Heims Mynd, under þitt Valld sig hneige, og eg þar uppa aum Mañkynd, Amen af Hiarta seige, AMEN.

## XXXIX. Psalmur.

### Uñ Ræningians Ydran.

Ton, Eirn HErra eg best ætte, etc.

†

NNar Ræningeñ rædde, sem refsad þad Siñ var, HErrañ vorn JEsum hædde, hañ gaf þetta Andsvar: Ef þar Von er til nockur, ad þu Guds Sonur siert, hiaalpa þier og so ockur, wr þessum Naudum bert.

Eñ hiñ þar uppa giegnde, ecke hrædest þu Gud, Hverium Straffs Heypteñ hegnde, Hun var riett forþienud; vid meigum vel medtaka, Verka

Betaling hañ, Eñ þesse er alls aan Saka: Epter þad sagde hañ:

Hugsa þu til mijn HErra, þa helldur þu Rijke þitt, Ast DRottens ei nam þverra, Andsvar liet heyra sitt: SANNlega Eg PJer SEige (sw er Hugguneñ vijs) Pu SKallt aa Pessum Deige, MJer PJoona J PARADijs. †

Siaa hier fyrst Straffed Synda, Saala mijn hryggelegt, Forherding Hiartans blinda, Po Hollded kvelliest frekt. Giefdu mier JEsu goode, Eg giegne vel Hyrting þijn, med Trw og Taara-Floode, og tiaae þier Broteñ mijn.

Ræningians Ydran eina, Athugum lijka med, hañ giørde Jatning hreina, hatade Jllverk skied, þvi sagde hañ være ad Vonum, Verdlauneñ Raanglætis, Avijtun veitte honum, sem villde ei giæta þess.

Hañ trwde aa Himnarijke, hefde vor JEsus Raad, þo Synduara sijndest Lijke, so treyste aa hañs Naad, med Blygdun og hrelldum Huga, HErrañ sijn miñast bad, Liwflega liet sier duga, Loford, Ef feinge þad.

Hroop og Haareyste giørdu, Heidner og Judar þar, kringum Krosseñ a Jordu, Med Kalls, Bryxl og Haadungar, svarade ei Son Guds neinu, þo sialfañ þad snerte hañ, Eñ syndugs Mañs Orde einu, aan Dvalar giegna vañ.

Sætt mier fyrer Sioonum skartar, Sæll JEsu Giæskañ þijn, Pier gieck helldur til Hiarta, hañs

Neyd

Neyd, eñ sialfs þijns Pijn, Sama hefur þu Siñe, Vid syndugar Skiepnur hier, þvi alldrei Elsku þiñe, aptur miñ HErra fer.

Illvyrkeñ hafde uñed, Odæda Verkeñ stædst, Gotu Glæpaña ruñed, greidt fram i Daudañ næst, Eñ JEsus ecke villde, æ þad neitt miñast nu, Svo var mykel hañs Millde, mijn Saal þad hugleid þu.

Eingeñ Orvænta skyllde, þo ydrast hafe seint, som er Guds Sonar Millde, sie añars Hiartad hreint, þvi hvorke vid Stade nie Stunder, stijlud er DRotteñs Naad, Allt fram Andlaited under, Oss bijdst hañs Hiaalpar-Raad.

Eñ þu skallt ecke Treysta, Ovissre Dauda-Stund, nie Guds med Glæpum freysta, Giörande þier i Lund, Naadar-Tijmeñ sie næsta, noogur Hendum fyrer, slijkt er Hættusemd hædsta, heñe Gud forde mier.

So margt eg syndgad hefe, Sorgeñ mig sturlar nu, Ydrun Guds Naad mier giefe, Glooande Von og Trw. HErra JEsu Hiart-kiære, hugsa þu til mijn þa, Dapur er Daudeñ nærre, Og drag mig Kvølum fraa, Amen.

* * * * * * * * * * * * * * * * * *

# XL. Psalmur.

## Pridia Orded Christi a Krossenum.

Ton, Skapareñ Stiarna HErra hreiñ, etc.

†

Uppa Ræningians Ord og Boon, ansade Guds hiñ Kiære Son: Pu skallt SA- NNLEga SEIGE EG Pier SAElu Wist Hafa J Dag Med Mier. †

Siaadu med Giætne Saal mijn kiær, soñ Ydran hvoriu kraptad fær, uppa þad Dæmed er hier riett, ollum til Lærdooms fyrersett.

Reide DRottens þa uppegnd er, yfer Raanglæte Mañsins hier, Ydruneñ blijdkar aptur Gud, ei verdur Syndeñ tilreiknud.

Po kome hostug Hefndeñ braad, hrein Ydran jafnañ fiñur Raad, midt i standande Straffe þvi, stillest Guds Reide uppa nij.

SamvitskuOrma Saareñ vest, soñ Ydran jafnañ græder best, Hugsvalar Saal og huggar Gied, Heiläga Eingla gledur med.

Bæn af ydrande Hiarta hijr, hun er fyrer Gude meteñ dijr, HErrañ JEsus a hvorre Tyd, heñe gaf jafnañ Andsvör blijd.

Sem Moyses med sijnum Staf, sætt Vatn droo fordum Steine af, Eins fær Ydrande Andvarp heitt, Ut af Guds Hiarta Myskun leidt.

Jaatning mijn er su JEsu miñ, Jeg er sem þesse Ræningeñ, jaa, aungvu betre fyrer Augsijn þijn, ef þu villt reikna Broteñ mijn.

Kiem eg nu þijnum Krosse ad, kañast þu JEsu miñ vid þad, Syndaña Pwinge þiakar mier, þreyttur eg nu ad mestu er.

Al-

Alnakeñ þig a einu Trie, wt þijnar Hendur breydande, Sareñ og Blooded signad þitt, sier nu og skodar Hiartad mitt.

Þar vid huggar mijn Saala sig, soddañ allt leidstu fyrer mig, þijns Hiarta Dreira heilog Lynd, hreinsar mig vel af allre Synd.

Krossens burtnumeñ Kvolum fra, Kongur rijker þu Himnum a, HErra, þegar mig hreller Pijn, Hugsadu i þiñe Dijrd til mijn.

Seigdu hvorn Morgun svo vid mig, sæte JEsu, þess beide eg þig: J Dag þitt Holld i Heime er, Hiartad skal vera þo hia mier.

J Dag (hvorn Morgun eg so bid) alldrei laat mig þig skiliast vid, Hugur, Siñe og Hiartad mitt, Hugse og stunde a Rijked þitt.

Eins þa kiemur mijn Andlaats Tijd, Ordeñ laat mig þau heyra blijd, i Dag (seig þu) skal Saaleñ þijn, Sañlega koma i Dijrd til mijn.

HErra miñ þu varst huleñ Gud, þa Hædne leidst og Krossens Naud, þo hafder þu med hædstre Daad, a Himnarijke Halld og Raad.

Daudanum moot mier Dirfung nij, Daglega vex af Orde þvi: i Dag þa lijdur ei laangt uñ þad, leidd verdur Ønd i Sælu Stad.

O! JEsu sieu Ordeñ þijn, Andlaats sijdasta Hugun mijn, Saal miñe verde Sælañ vijs, med sialfum þier i Paradijs, Amen.

# XLI. Psalmur.

## Pad Fioorda Ord Christi a Krossenum.

Ton, Af diwpre Hrygd akalla eg þig, etc.

†

Ut M Land giørvallt vard yfred myrkt, allt nær fra siøttu Stundu, Sooleñ þvi Lioosma siñ fieck byrgt, señ til hlñar Níjundu, GUD MJñ (JEsus svo hroopar hætt) HVAR FYRER GLEJMDER PU MJER BRADT? † Soddañ mijn Sæl vel mundu.

Eingeñ skal hugsa ad HErrañ þa, hafe med Efa og Bræde, Hroopad hañeñ, nie horfed fra, Heilagre Poleñmæde: Syndaña Krapt og Kvalaña stærd, kyñer hañ oss, So verde hrærd, Hiørtun fra Hreckia Ede.

Sooleñ blygdast ad skijna skiær, Pa Skaparasiñ sa lijda, Hun hafde ei Skulld, þad vitum vær, þess Voda-Meinsins strijda, O! hvad skyllde þa skamast sijn; Sklepnañ sem ORottne jook þa Pijn, med Hrygd og Hiartañs-Kvijda.

Avi! Hvad mæ eg aumur Præll, angrædur nidur driwpa, þa eg heyre miñ HErra sæll, Sw Harma-Bylgiañ diwpa, Gieck yfer þig þa gallstu mijn, giarnañ vil eg ad Footum þijn, Feigeñ fram flatur kriwpa.

J ytstu Myrkrum uñ Eilijfd er, Oop og gnijstrañ Tañaña, Hefndar Straff þad var maklegt mier,

mier, fyrer Margfiolldañ Glæpaña, Fra þvi JEsu þu frelster mig, Frekt geingu Myrkreñ yfer þig, so skyllde eg þa Kvol ei kaña.

J svortu Myrkre þad sama Siñ, Sorgar-Raust lietstu hlioma, þa hroopader þu mig Herra iñ, J Himneskañ Dijrdar Liooma: J þvi Lioose um̃ eilijf Ar, wthroopa skal mijn Raustteñ klaar, Lof þiña Leyndardooma.

Synda, Sorga og Mootgaangs med, Myrkreñ so opt mig pijna, ad gløat fær ecke Saaleñ sied, Sælu Geislana þijna, JEsu Riettlætis Sooleñ sæt, syrgiande eg þad fyrer þier græt, Harma-Raust heyr þu mijna.

Gud Miñ, Seige eg giarnañ hier, Geist þo mig Sorgeñ mæde, JEsu eg lære nu þad af þier, þad skulu mijn Urræde, giorvoll þa Heimsins Gledeñ dvijn, Gud Miñ eg hroopa vil til þijn, Gud Miñ allt Vol mitt græde.

Yfergiefeñ kvad Son Guds sig, Pa særde hañ Kvøleñ megna, yfergiefur þvi alldrei mig, Eilijfur Gud hañs vegna, Fyrer þa HErrañs Hrygdar-Raust, Hædstur DRotteñ mun Efalaust, Graatbeidne miñe giegna.

Pa Soolar-Byrtuñe eg sviptur er, Sioon og Heyrn tekur ad dvijna, Raust og Maalfære mijnkar mier; Myrkur Daudañs sig sijna, J Miñe þier DRotteñ fæll þa sie, Sonar þijns Hroop æ Krossens Trie, Leid Saal til Lijfsins mijna, Amen.

* * * * * *

# XLII. Psalmur.

## Fimta Ord Christi a Krossenum.

Ton, Eins og sitt Barn, etc.

†

Hwarre Neyd, sem JEsus leid, sagde hañ glögt, MJG PYRSTER, So Rit-ning hrein, J hvorre Grein, Uppfyllteſt ein, um̃ þad mig ræda lyſter.

Strax hlioop eirn ad, Pa heyrde þad, Hitta Niardarvott kuñe, Liét a Reyr-Prik, Drap i Edik, med illt Tilvik, og bar JEſu ad Muñe. †

Forundraſt mæ, miin Saal, þar a, Madur-eñ hvor þeſſ giæter, ad hañ ſem Raad, hefur med Dad, a Himne og Laad, Hormung þvilijkre mæ-ter.

Hañ ſat ſem Viin, af Vallde ſiin, wr Vatne ſætt til reidde, med Sorgar Skick, fieck ſwrt Ed-ik, fyrer Svala-Drick, þa ſaart hañ Porſtiñ neidde.

Pvi munde ei hier, til Hlijfdar ſier, HErrañ Ediked lijka, ſem Viin agiætt, giora vel ſætt, fyrſt gat þad bætt, hañs Guddoms Maatiñ rijka?

Komeñ var Tyd, Kraptaverk frijd, Chriſtur ei giora ſkyllde, hin ſtundeñ þa, fyrer Hende laa, Hryggd, Kvol og Praa, HErrañ vor lijda villde.

Kraptaverk hrein, kiendu þa Grein, ad Chri-ſtur Guds Sonur være, eñ Kvoleñ hañs, ſijnde

til sans, ad Syndugs Mañs, Sekter og Gi-olld hañ bære.

Guds einka Son, giordest vor Pioon, þa grædde hañ Mein og Kvijda, Offur Lamb best, hañ ordeñ siest, fyrer utañ Brest, i þvi hañ Kvol nam lijda.

Af Strijde þvi, sem stood hañ i, Styrkleike Mañs Natturu, Preytast miog vañ, þvi Pyrste hañ, þaade Vokvañ, þo af Edike swru.

J añañ Stad, merk Madur þad, og miñst þess hvoriu Siñe, ad HErrañ Christ, befur mest þyrst, af Ast og Lyst, epter Saaluhiaalp þiñe.

O! Madur nu, þeink þar uñ þu, þiñ Hugur blygdast skyllde, Gud Pyrste hier, ad hiaalpa þier, Eñ Hiartad þitt er, Oþyrst epter hañs Millde.

Heyr þu Saal mijn, Talar til þijn, Trygda-Brwdgumeñ goode: Pyrstur eg er, J Hrygdum hier, so hiaalpe eg þier, wr hættu Kvalaña Floode.

Ber honum siist, þess bid eg viist, Beyskañ Dryck Hræsnis Anda, Ordeñ hañs hrein, æ alla Grein, fyrer utañ Mein, Obriaalud laattu standa.

Uppaa Ord þijn, svarar Saal mijn, Sorgeñ þo Maaled hepter: Pyrst er eg nu, og þad veitst þu, þijde JEsu, Piñe Myskunsemd epter.

Ecke er hia mier, þad Pyrstum þier, Pore eg nu frañ ad biooda, Nema saa Taar, Trw veik, þo klaar, sem til þijn staar, Tak þad og vird til gooda.

Lof, Dijrd sie þier, Lausn fieckstu mier, og lietst þig so miklu kosta, Hiartad a nij, huggast af þvi,

ad eg er frij, fra Eilyfum Kvala-Porsta, Amen.

# XLIII. Psalmur.

## Siøtta Ord Christi a Krossenum.

Med Hymna Lag, etc.

†

Pter ad þetta allt var skied, Ediked JEsus smacka ried, Proott og Liifs-Krapta þverra saň, PAD ER FULLKOMNAD, sagde haň. †

Ord hijns HErra med Ast og Trw, Athuga skylldet Saal niijn þu, ef þeirra Grundvoll saňaň sier, Sæta Huggun þau giefa þier.

Fyrst skalltu vita ad Gud wtgaf, Greinelegt Logmaal Himnum af, haň vill ad skule Heime i, Hvor Madur lifa epter þvi.

Algiordt Riettlæte Liooft og Leynt, Liikama, Saal og Gieded hreint, Syndalaus Ord og Atvik med, Af oss Logmaaled heimta ried.

Hiartaň vor og Hiartad sie, i hreinnre Elsku riett breňande, Fyrer utaň Hræsne, Bræde og Baň, bæde vid Gud og Naunganň.

Hvor þetta giære hallded riett, honum var Liifed fyrer sett, Eň ef i einu wt af braa, Eilijf Fordæming vid þvi laa.

Eingeň Madur fraa Adam fyrst, Epter haň Dag haň syndgadist, Fullnægiu gat þvi giort til Saňs,

Hans, geingur þad laungt yfer Edle Mans.

Obæreleg vard allra Sekt, epter þvi DRottenn gieck so frekt, annad hvort skyllde uppfyllt þad, Eda Mannkyned fortapad.

JEsus Eymid vora alla sá, Ofann kom til vor Jordu á, Hædum Himna Upprune af, under Logmaaled sig hann gaf.

Vilinglega i vorn Stad gieck, var sw Framkvæmden Gude þeck, Fodurnum Hlijdne fyrer oss galldt, Fullkomnade so Logmaal allt.

Enn so ad Synda-Sekten skied, sannlega yrde forlijkt med, og Bolvan Logmaalsins burtu mad, Beiska Kvol leid og Daudans Hrad.

Þa hann nu hafde allt Uppfyllt, sem oss var sialfum ad giora skylldt, og bæta oll vor Brotenn frij, Berlega villde hann lijsa þvi.

Þess vegna HErrann hroopa nam, Hartnær á Krosse stijgenn framm, ad oss i voru Andlaate, Oll hans Verdskulldan Huggun sie.

Soddann adgiættu Saala mijn, Sonur Guds hroopar nu til þijn, hvad hier til Frelsis þiena kann, ÞAD ER FULLKOMNAD, saade hann.

Fullkomnad Logmaal fyrer þig er, Fullkomnad Gialld til Lausnar þier, Fullkomnad allt þad fyrer er spaad, Fullkomna skalltu eiganast Raad.

HErra JEsu eg backa þier, Hvilijka Huggun gafstu mier, Ofullkomleika allann minn, Umbæte Guddooms Kraptur þinn.

Hialpa þu mier so Hiartad mitt, hyxe jafnann umm

um̃ Dæmed þitt, og halldest hier i Heime nu, vid hreina Samvitsku og rietta Trw.

Uppa þesse þijn Orden̄ traust, Ohræddur Dey eg Kvijdalaust, Þvi siw Frelsis Fullkomnan þijn, Forlijkad hefur Broten̄ mijn, Amen.

# XLIV. Psalmur.

## Siøunda Ord Christi a Krossenum.

Ton, HErra Gud i Himna-Rijke, etc.

†

Hrøopade JEsus hætt i Stad, Hollds Megn og Kraptur dvijnar, eg fel min̄ Anda (Frelsaren̄ kvad) Fader i Hendur þijnar. †

Þu Christen̄ Madur þeink uppa, þijns HErra beiskan̄ Dauda, ad Ordum hans og eirnen̄ gæa, eru þau Lækning Nauda.

JEsus hallden̄ i hædstre Kvol, hladen̄ med Eymder allar, dapurt þa adgieck Daudans Bol, DRotten̄ sin̄ Fødur kallar.

HErran̄ vill kien̄a þar med þier, þijn ef Man̄rauner freysta, Goodlyndur Fader Gud þin̄ er, giorer þu honum ad treysta.

Fyrer Jesum þu fullvel mætt, Fødur þin̄ Drotten̄ kalla, en̄ þo þig Krossen̄ þvijnge þrætt, þad mijker Hørmung alla.

Eins og Faderen̄ aumkar sig, yfer sitt Barn-

ed siwka, so vill Gud eirneñ añast þig, og ad þier i Myskun hiwka.

Eirneñ sijna þier Ord hañs klaar, Odaudleik Saalareñar, þo Kroppureñ verde kalldur Naar, kreinkest ei Lijfed heñar.

Hvar hun fiñur siñ Hvijldar Stad, HErrañ sijner þier lijka, Hond Guds þijns Fodurs heiter þad, hugsa um Rædu slijka.

Vilier þu epter endad Lijf, eige þijn Saal þar heima, under Hond DRottens hier þa blijf, hañs Bodord skalltu geyma.

Laattu Guds Hond þig leida hier, Lijfs-Reglu halldt þa bestu, blessad Ord hañs sem bodast þier, i Briooste og Hiarta festu.

Hrittu ei fra þier Herrans Hond, hun þo þig typta villde, legg helldur bæde Lijf og Aund, Liwflega a DRottens Millde.

Hier þegar Mañleg Hiaalpeñ dvijn, Hollded þo kveine og sijte, uppa Hond DRottens Augun þijn, ætijd i Trwñe lijte.

Ad Morgne og Kvollde miñst þess vel, Maals Uppterkt laattu þijna; af Hiarta eg þier a Hendur fel, HErra Gud, Saalu mijna.

So maattu vera viss uppaa, vilie þier Daudeñ granda, Saaleñ þijn mæter Myskun þa, millum Guds Fodurs Handa.

Hun fiñur eckert Hrygdar-Strijd, Hormung nie Mædu neina, i Fride skodar ætijd blijd, Asioonu DRottens hreina.

Epter-

Epterterkt mier þad eirneñ jook, er eg þeß giæta kuñe, Andlaats Bæn sijna siaalfur took, Son Guds af Davids Muñe.

Bæn þijna alldrei bygdu fast, a Briooſt-Vit Naatturu þiñar, i Guds Orde skal hun Grundvallast, þad giefur Styrk Trwareñar.

Vier vitum ei hvors bidia ber, Blindleikeñ Hollds þvi velldur, Guds Ord sijner þañ Sañleik hier, Sæll er sa þar vid helldur.

Vertu Gud Fader, Fader miñ, J Frelsarans JEsu Nafne, Hond þijn leide mig Ut og Jñ, so allre Synd eg hafne.

Hondeñ þijn O Notteñ hlijfe mier, þa Heims eg Adstod misse, eñ nær sem þu mig hyrter hier, Hond þijna eg gladur kysse.

Daudañs-Strijd af, þijn Heilog Hond, hiaalpe mier vel, ad þreyä, Medtak þa Fader mijna Ond, mun eg so gladur deya.

Miñ JEsu Andlaats Orded þitt, J mijnu Hiarta eg geime, Sie þad og lijka Sijdast mitt, Pa sofna eg burt wr Heime, Amen.

# XLV. Psalmur.

## Uñ JEsu Dauda.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

†

PA Frelsareñ i Fodurs Hond, fool nu blessadur sijna Ond, nidur sitt Hofud hneigde fyrst, HErrañ, i þvi hañ Saaladist, Drott-

eñ

eñ vor þañeñ do a Trie, Daasemd kuñe ei meire skie.

St. Paall seiger i sañre Raun, Syndareñar sie Daudeñ Laun, Bana-Spioot eru Broteñ lioot, Bodordum DRotteñs giørd aa moot, Saa skal deya sem syndgar hier, Soddañ Urskurdur riettur er.

Eñ þad hier heima aatte sijst, Af þvi JEsus er Saklaus vijst, af helgum Anda med hreinum Sid, Hañ var gieteñ i Meyar-Kvid, Guds Fødurs Veru fegurst Mynd, frioals lifde og doo af allre Synd.

Hvorke Nessing nie Heliar-Bad, hafde nu JEsus forskulldad, hvad kom þa til ad HErrañ leid, harda Pijnu og beyskañ Deyd? Eda hvar fyrer hyrtest hañ, Hyrtingar til sem alldrei vañ?

Guds Ande þar a giorer Skil, greiner þvilijka Ordsok til, vegna Misgiorda vorra hier, vissulega hañ særdur er, þvi DRotteñ lagde so fyrer Sañ, Syndernar vorar uppa hañ.

Siaa hier mijn Saal, fyrer Synder þijn, Sonur Guds lijdur Kvøl og Pijn; hañ doo fyrer þig sem Daudans Bad, Daarlega hafder forskulldad, hañ liet sitt Lijf, so lifder þu, Lijfs eilijfs Von þvi aattu nu.

A mig var falleñ Plijngsla Praut; Pviad eg DRottens Logmaal braut, Samvitsku særde Synda-Graad, svo fieck Daudeñ sterk Yfer-raad, til Fordæmingar mier Fiotureñ hañs; Fastlega hielldu vijst til Sañs.

Logmaal safnade Sektum mier, Sekteñe Daudeñ epter ser, Daudeñ til Doomsins dregur snar, Doomureñ Straffed wrskurdar, Straffed uñ Eilijfd alldrei dvijn, Eilijf þvi var hin þijngsta pijn.

Logmaaled hier sig forgreip fyrst, fellde þad Doom yfer Herrañ Christ, þad baud ad sæ Bolvadur sie, sem Bana lijdur a-einn Trie, Diarflega epter þvi Daudeñ gieck, DRotteñ fra Lijfe skiled fieck.

Sekt þa sem Logmaal sette mier, sialfur borgade JEsus hier, þad miste sijna Magt i þvi, mig verdur nu ad læta frij, Daudans Broddur var broteñ þa, burt hañs Fangelse slapp eg fra.

Eilijfur Daude deiddur er, Daude JEsu þad viñur hier, dijrt metur DRotteñ Dauda miñ, Daude hvar er nu Broddur þiñ? Daudeñ til Lijfs nu stutt er Stig, Stoorlega Daudeñ batar mig.

Daudeñ þvi orkar eirn til sañs, wtslokna hlijtur Lijfed Mañs, Hollded leggst i siñ Hvijlldar-Stad, hañs Magt nær ecke leingra eñ þad, Sarleñ af ollu Fære frij, flutt verdur Himna Sælu i.

J þijnum Dauda O! JEsu, er mijn Lijfgiof og Huggun trw; Dæsemdar Kraptur Dauda þijns, dreifest nu in til Hiarta mijns, uppa þad Synd og Jllskañ hver, wt af deye i Briooste mier.

Þu hneigder þijnu Hofde lioost, HErra, þegar a Krosse doost, med þvi benter þu mier þad Siñ,

ad

ad miñast jafnañ a Dauda þiñ, eins þa eg dey, skulu Augun mijn, upplijta D Rotteñ sæll til þijn.

Fyrer þañ Deyd sem þolder þu, þig bid eg Jesu um̃ þad nu, ad giefe mier þijn Giæskañ blijd, Gooda Christens Mañs Dauda Tijd, Holld mitt læt hvijlast hægt med Frid, Hond þijn Sælune take vid, Amen.

# XLVI. Psalmur.

## Um̃ Teikneñ sem urdu vid Christi Dauda.

Ton, Pa liñer hier mijn Lijkams Vist, etc.

Egar Christur a Krossens-Trie, kallade Daudañ strijda, Teikn og Stoormerke mestu skie (mæler so Ritning frijda) Musteris-Tiallded miog um̃-vendt, J Midiu vard ad rifna i Tvent, Hrystest Jord harla vijda.

Sundur-klofnudu Biorgeñ blæ, byrgd Leideñ opnast fooru, Lijkamer Daudra lifna þa (lijt hier þau Undureñ stooru) Epter Lausnarañs Upprisu, Jñ i Borgena vitiudu, af sumum þar sieneꝛ voru.

Hvad hier Historiañ herмer riett, hygg ad þvi Sæl mijn mæta, þier til Lærdooms er þad frañ sett, Pess ættu vel ad giæta, Jordeñ skalf þegar

JEsus doo, Jafnvel þeir hordu Klettar þo, sijndu Medaumkan sæta.

Steine hardara er Hiartad þad, sem heyrer um̃ JEsu Pijnu, giefur sig þar þo ecke ad, an̄ meir Giælijfe sijnu: kan̄ nockud soddan̄ kalldt Hugskot, Christi Dauda ad gyrnast Not? Gud stioorne Giede mijnu.

Pad maa undra hin þwnga Jord, Preyde ei kyrru ad hallda, Blaagriijtis eirnen̄ Biorgen̄ hord, Breste lidu margfallda, Hollded þo ei nie Hiartad Man̄s, hryggest vid Pijnu Skaparans, sem han̄s þo hlaut ad giallda.

Fortialldeð sijner San̄leik þan̄, sundur þa risna naade, Af-takast skyllde oll fyrer San̄, epter Guds settu Raade, Gydinga Kynsins Kongleg Stioorn, Kien̄evallded og Logmaals-Foorn, sem Ritning sialf um̃ spaade.

Hindrun ried ollum æred stoor, in̄ i Guds Rijke ban̄a, þvi velldur Synda-Sekten̄ vor, Og Saurugleiken̄ Verkan̄a, En̄ fyrer JEsu dijrstan̄ Deyd, DRotten̄ tilbioo oss opna Leid, Hiedan̄ upp til Himnan̄a.

Hier i Christnen̄ar Helgedoom, hofum vier Frelse ad gaanga, bar bodast Naad og Blessun froom, Burt er þa Sorgen̄ straanga, Saalen̄ vor hefur bwna Braut, beint i Abrahams Gledeskaut, epter Heims Hormung laanga.

Frelsarans Dauda eirnen̄ ad, Ondud Lijken̄ hier niota; Gudlegur Kraptur giorer þad, Grafernar

ernar opnast hlioota, hvi Drottens JEsu Daude a Kross, Daudan sigrade fyrer oss, Afl hans og Brodd nam brioota.

Merk ad wr Jordu matte ei Neirn, Madur fra Dauda standa, fyrr en tiede vor HErra hreirn, Holld sitt aptur lifanda, Fyrstur allra hvi uppreis han, af eigen Krapte, og þar med fan, Endurlausn oss til Handa.

† Hofdingen Krosse HErrans hia, hier med allt Foolked lijka, jafnsnart er soddan Jardteikn sia, Jatning þeir giordu slijka: Sanlega hefur saklaus han, og Son Guds vered þesse Man. Brioost sla og bradt heim vijkia. †

Foolked sem harda Krossens Kvol, Christo fyrr Oska nade, san nu hid þijngsta i Brioosta Bol, beiskleg Samvitskan hiade. Ofhastarlegan Ursfurd slij, ef þu villt vera af Sorgum frij, Hætt er Rasande Rade.

Daude þin JEsu Drotten þa, Dijrdlegan Krapt wtsende, Heidnum Mane so hier vid bra, han þig Guds Son medkiende. Jeg bid Giæskunar Gieded þitt, gief þu vidlisne Hiartad mitt, ad so fra Illsku vende, Amen.

# XLVII. Psalmur.

## Um Christi Kuningia.

Ton, O! JEsu Elsku hreirn, etc.

†

Uñinglar Christi þa, Krossenum lærngt i fra, stoodu med þrwngre Præ, þessa Tilburde siæ.

Var þar og vidstadt med, ad vissu margt Kveñfoolked, Saar JEsu seingu sied, sorgande bæru Gied. †

Af þessu miin Saal þu sier, Sañleaa hverssu er, vallt allt i Heime hier, haf slijkt i Miñe þier.

Sviinar og dregst i hlie, a Dauda Stunduñe, Vinskapur Frændur, Fie, fallvallt hígg eg þad sie.

Þo villdu Vinerner, veita Hiælp nockra þier, Vorn þeirra Onijt er, eingeñ Daudanum ver.

Lijfenu hiwkar Hönd, þa herder Sottar-gröñd, hiælpar þo eingeñ Önd, Upphugsud Rædeñ vond.

Vinskap i Synda Sid, Saala miin þess eg bid, halltu ei Verolld vid, vilier þu sofna i Frid.

Hreinañ Vinskap hallt þu, vid HErrañ þiñ JEsum nu, i helgre Hiartans Trw, fræ Heimsins Eisku þier snw.

Hañ eirn mæ hiælpa þier, þa Hiærtod Mañleg þver, Heim þig a Höndum sier, J Himna Sælu ber.

Þad hier i Sañleik siest, er Sonur Guds andadest, Sorgen þa særde mest, sem hañ elskudu best.

Christs Born eru Kross-Born, vid Christum hlijdnis-giorn, hañ sijner þiñ Hiælp og Vorn, þo

hord

hord sie Swtar Kvorn.

Pu skyllder þar ad gær, þo þeir stæde laangt fra, Aller samhuga siaa, Son Guds Krossfestañ aa.

Komed so Konur og Meñ, ad Krossenum JEsu señ, þo Naudeñ þreynge þreñ, þar sæst noog Lækningeñ.

Kom þu Saal Christeñ hier, sem Kross og Mañrauner ber, settu fyrer Siooner þier, Son Guds sem piindur er.

Uppa hañs heilog Saar, horfe þijn Trweñ klaar, þad mijker Trega og Taar, Temprar allt Sorgar-Faar.

Siertu syndugur Mañ, særdur uñ Hyggiu Rañ, horf þu beint uppa hañ, sem Hiaalp þier a Krosse fañ.

Hvor sem Eyr-Ormeñ leit, af Jsraels Maña Sveit, Eytred ei aa þañ beit, øll stilltest Plaagañ heit.

So stoor Synd eingeñ er, ad meiñe granda þier, Ef þu aa JEsum sier, ydrande i Trwñe hier.

Sie eg þig sæll JEsu, so sem aaleingdar nu, Von mijna og veika Trw, vid þid eg hreisser þu.

Pa eg sie Saareñ mijn, Særer mig Hiartans Pijn, Saareñ þa sie eg þijn, Sorg øll og Kvijde dvijn.

Laat mig O! JEsu kiær, Alldrei so vera þier siær, ad siaae eg ei Saar þijn skiær, Pa Sorg og Synd mig slær.

Veit mier eg verde og sie, Vin þiñ og Kuñ-

inge, Po hverfe Heilsa og Fie, Hiaalp mun þa noog i Tie.

Jeg fel i sierhvort Sinn, Saal og Liikama minn, J Valld og Vinskap þinn, Vernd og Skiool þar eg finn, Amen.



# XLVIII. Psalmur.

## Umm Christi Siidu-Saar.

Ton, Tunga miin af Hiarta hlioode, etc.

†

AD Kvollde Judar fraa eg fære, til Fundar senn vid Pilatum, og þess beiddu ad ecke være, Onduð Liik aa Krossenum, þvi Haatijdenn var harla nærre (hier so Ritning greiner umm.)

Strijds-Monnum hann baud ad brioota, Beinenn þeirra, og so var giørt, Heliar-Stund þvi hr ptu flioota, hiner Tveir sem greiner bert, Enn Jesum lietu siins Liiflaats nioota, Limena hanns ei feingu snert.

Strijds-Mann einn med Heiptar-Hoote, hardlyndur gieck Krosse ad, Lausnarans Siidu lagde Spioote, Laged nam i Hiarta-Stad, Blood og Vatn þar fraa eg utflioote, Fyrr var aadur spaad umm þad. †

Ummhugad er einum DRottne, allra siinna Barna Liik, i Jordu hier þott Holldeð rotne, Huggun traust

traust mig gledur slijk, hañ vill ei tijnest Bein nie brotne, blessud sie sw Elskañ rijk.
Gud DRotteñ med giæsku Raade, giorde Adams Sijdu af, frijda Kviñu fyrst a Laade, fast hañ þo a medañ svaf, vaknadur þess ad vijsu gaade, og Veglegt heñe Nafned gaf.
Sofnadur a siñe Sijdu, Saared DRotteñ JEsus bar, so af Vatne og Bloode hañs blijdu, bygdest heilog Christneñ þar, næde hun edla Nafne frijdu, nær til Himna stijgeñ var.
Skoda þu hvorneñ Skijrneñ hreina, skiliast nu med riettu a, ad vijsu jafnañ Vatned eina, vor Lijkamleg Augu sia, eñ Trwar Siooneñ, so maa greina, Sonar Guds Blood þar lijtur hia.
Æ! hvad maa eg sælañ saña, St. Thomam Postula þiñ, þa Sijdu maatte hañ Saar þitt kaña, sijna Hond þar lagde iñ, þu munt ei mier þiœdum baña, þad ad skoda JEsu miñ.
Allar JEsu Ædar stoodu, opnadar i Kvoleñe, Dreyra Lœker dundu og floodu, uñ DRottens Lijf a Krossens Trie, Nægd af Lausnar Giallde goodu, Guds Son fyrer mig liet i tie.
Eñ so eg skyllde sia og jaata, saña Elsku DRottens mijns, villde hañ ecke læstar laata, Lijfs Ædarnar Hiarta sijns, þvi er Saal mijn mikel wr Maata, Mysksunseme Lausnara þijns.
Opnar Dyr a Arkar Sijdu, iñ uñ geingu Skiepnurnar, sem sialfur DRotteñ baud med Blijdu, Biargast skylldu iñe þar, fyrer Vatn-

ſins Floode ſtrijdu, Frelſe og Lijf þeim gieſed var.
Lijfſins Dyr a Sijdu ſiñe, ſetur JEſus opnar hier, ſo ængrud Sæla Adſtod ſiñe, øll þa Mañleg Hiælpeñ þver, hvor ſem hefur þar Athvarf iñe, fra eilijfum Dauda leyſtur er.
Noe um ſiñ Arkar Glugga, upp til Himens li-ted fieck, halldeñ dimum Hrygdar Skugga, hætt þa Vatnſins Flooded gieck, ſo háñ mætte uñ ſijd-er hugga, Soolar-Liooma Byrtañ þeck.
Giegnum Jeſu helgaſt Hiarta, i Himeneñ upp eg lijta mæ, Guds mijns Aſtar Byrtu biarta, bæ-de ſæ eg ad reina og ſiæ, Hrygdar Myrkred Sor-gar ſvarta, Saalu miñe hverfur þa.
Guds var mættug Millded prwda, Moyſes þa Steineñ ſloo, Ut til allra Iſraels Bwda, ægiæ-ætt Svala Vatned droo, hreſte Pyrſta, Piæda, og Lwda, þeim ſo nija Krapta bioo.
Pa ſiælfur Gud a Sonarens Hiarta, ſijnum Reide-Sprota ſlær, uñ Heimſins Attar alla Parta, wt rañ Svala-Lyndeñ ſkiær, Sæleñ vid þañ Bruñeñ biarta, Bleſſun og nija Krapta fær.
Vid þeñañ Bruñeñ Pyrſtur dvel eg, þar mun eg nija Krapta fæ, J þeſſe iñ mig Fylſneñ fel eg, ſargar eingeñ Sorg mier þa, Sælañ mig fyrer Trwna tel eg, hun tekur ſo DRotteñs Ben-inin æ.
Hiartad mitt er HErrañ goode, Hryggelega ſaurgad miog, Pvo þu þad med þijnu Bloode, Pijs af Audmykt beyde eg, Uñe mier Boot æ

Mædu og Moode, Myskunsemen Guddoomleg.
Hiartans iñstu Ædar mijnar, Elske, Lofe, Prijse þig, Eñ Hiarta-Blood og Beniar þijnar, Blesse, Hresse, Græde mig, Hiartans þijdar Packer sijnar, þier sie Giædskañ Eilijfflig, Amen.

# XLIX. Psalmur.
## Uñ Christi Greptran.
Med Lijk-Saungs Lag.

†

JOseph af Arimathia, Edalboreñ Raads-Herra sa, Gydinga Svik vid Son Guds skied, samþyckt hafde þeim alldrei med.
Hañ var Lausnarañs Læresveirn, Lijfeenis froomur, Dygda hreirn, Gydinga hræddest Heiptar-Raun, hiellt sig ad Christo, þo æ Laun.
Pesse uñ Kvollded þangad gieck, þa af Pilato Leyfed fieck, ad mætte JEsum andadañ, ofañtaka og Jarda hañ.
Joseph took strax af Krosse Christ, Keypte þo nijañ Lijn-Dwk fyrst, Nicodemus kom þegar þar, Paangad kostuleg Smyrsleñ bar.
Joseph Grof Eina ætte þar, wtkløppud swi Steine var, J Aldengarde þar allskamt fræ, Eingeñ fyrr Daudur i heñe læ.
Dijrdlega smurdu DRottens Lijk, Dæmeñ mæ oñur siña slijk, byrgdu med Steine bwna Grof,

Grof, Burt geingu strax fyrer utañ Tof.

Maria Jacobs Mooder ein, Magdalena a somuGrein, Salome eirneñ sat þar hiaa, saau vors HErra Greftran aa. †

J þeirra SelskapSaal mijn blijd, settu þig nidur litla Tijd, Greftrun þijns Herra giæt vel ad, Gagnlaust mun ecke vera þad.

Vid JEsu Greftran jeg sæ sied, Joseph og Nicodemum med, ædur þordu þeir ecke Christ, Opeñberlega ad jaata fyrst.

Nu sæa þeir næsta nijañ Dug, nooga Diorfsung og styrkvañ Hug, Augliooslega so aller siaa, Elsku, sem DRottne hofdu aa.

Riwkande Trwar-Horeñ hier, Helgur Ande so vid nærer, Lioomande þar af Liooſed skijn, Lijfgar hañ allt med Krapte sijn.

Huggest þeir nu sem Hiartad deygt, hafa og Trwar-Megned veikt, Bidie um Styrk og stodugt Gied, Stunde og lære Guds Ord med.

Veittu JEsu ad veik Trw mijn, vaxe Daglega og Elskañ þijn, Efleſt so med mier Jñvortes, Ytra good siaaeſt Merke þess.

Añad þu lijka merkia maatt: mislijkar DRottne aa aungvañ Haatt, þo Heidarleg ſie hier aa Jord, Hollde Utvaldra Lijk-For giord.

Mætaſt Guds Anda Mustere, Mañs var Riett-Christeñs Lijkame, Þvi maa honum veitast Virding riett, Vel med Stilling og Hoofe sett.

Erfis-Dryckur og Onijtt Prjaal, ecke a skylldt

vid

vid þetta Maal, Heidingia Skyckun Heimskuleg, hæfer Christnum a aungvan̄ Veg.

Etijd þa sier þu Sæalad Holld, sett vera nidur i Jardar Molld, Hryggur þu vert, og hugsa bradt, hier vid þu lijka skilia ætt.

Lagt þegar nidur Lijked sier, lættu sem Dauden̄ hvijsle ad þier, længt mæ skie ecke lijde um̄ þad, legg eg þig eins i slijkan̄ Stad.

Goode JEsu fyrer Greptran þijn, gief þu sijdasta Utfør mijn, verde farsæl og Fridsom mier, Frelsud Saal naae Dijrd hia þier.

J þridia Maata Huggun hrein, hier veitest mier a alla Grein, Guds Sonar Holld þvi greptrad var, Greptrun min̄e til Virdingar.

Helgum Guds Børnum, HErrans Holld, Helgade bæde Jørd og Molld, Grøsen̄ þvi er vort Svefn-Hws sætt, so mæ ei granda Reiden̄ hætt.

So ad lifa eg Sofne hægt, so ad deya ad Kvøl sie bægt, so ad Greftrast sem Guds Børn hier, gief þu sætaste JEsu mier! Amen.



# L. Psalmur.

## Um̄ Vardhallds Men̄ena.

Ton, Eins og sitt Barn, Fader Astargiarn, etc.



Hølldungar Juda an̄ars Daags, Jn̄ til Pilatum æingu strar, sogdu: Herra, vier høfum mest, i Huga fest, hvad sa Falsare hersma liest.

Epter

Epter þriaa Daga Odt fyrer Sañ, Upprijsa mun eg, sagde hañ, vid slijku er best ad leita Lags, laat geyma strax, þessa Grof, iñ til þridia Dags.

Maaske Lijked med Leyndum hlioodt, Læresveinar hañs take uñ Nott, og Lijdnum seige þad Liga-Skin, þa lijst ei Kyn, þo verde sw Villañ verre eñ hin.

Pilatus vijst þeim Vardhalld fieck, Vakteñ strax wt af Stadnum gieck, Grofeñe blifu HErrañs hiaa, og so til siaa, settu Iñsigle Steineñ aa. †

Gydinga hord var Heipteñ beisk, Hiartans Blindleike og Villañ treisk, þeim kuñe ei nægiast Kvol og Bañ, sem Christur fañ, lijka daudañ þeir lasta hañ.

Fordastu soddañ Fijsliku Grein, framlidens Mañs ad lasta Bein: sa Daude hefur siñ Doom med sier, hvor hellst hañ er, sem best haf Gaat a sialfum þier.

Gydingar villdu veita Rijrd, vors Lausnara Upprisu Dijrd, eñ DRottens Valld og Vijsdooms Raad, þess vel fieck gaad,; Verk sitt framkvæmde vijst med Daad.

Hefde ei Vakteñ geymt og giætt, Grafareñar sem nu var rædt, Orsok var meire ad efast þa, hvort upp ried staa, DRotteñ vor Jesus Daudum fraa.

Eñ þeir sialfer, og er þad vijst, Upprisu Drottens hafa lijst, þo Kieñemeñ Juda af kalldre Stigd, kvallder af Blygd, keyptu þa til ad bera Lygd.

Oll

Oll Svikrad Maña og Atvik ill, Ovijter Motteñ þa hañ vill, hañs Rad um̃ Eilijfd stodug stár, og Stioorneñ klár, Slægdeñ Dramblátra sliett forgár.

Hvijle eg nu sijdast Huga miñ, Herra Jesu vid Legstad þiñ, nær sem eg giæte ad Greftran þijn, Gledst Saala mijn, Skielfing og Otte Daudans dvijn.

Sekter mijnar og Synder barst, sialfur þegar þu pijndur varst, uppa þad dooftu Motteñ kiær, so kvittudust þær, Hiartad þvi nijañ Fognud fær.

Pu grofst þær nidur i Grøf med þier, gafst þitt Riettlæte aptur mier, J Hafsins Diwp sem fyrr spad fiñst, þeim fleigder liñst, um̃ Eilijfd verdur ei a þær miñst.

So er nu Syndeñ iñsiglud, ydrande Saala kvitt vid Gud, Eilijft Riettlæte uppbyriad, i añañ Stad, trwud Mañeskia þyggur þad.

Daude þiñ JEsu deide hier, Dauslega Holldsins Girnd i mier, Grøfeñ þijn hylie Glæpi mijn, fyrer Guds Augsijn, Efle mier Styrk Upprisañ þijn.

Stein-Proo mijns Hiarta wthøggveñ sieft, heilagur Ande vañ þad best, Lijndwk Trwar eg lær i Tie, miñ Lausnare, Ilmande Smyrsl Ydraneñ sie.

So fiñe eg hæga Hvijld i þier, Hvijl þu JEsu i Brioofte mier, Jñsigle Heilagur Ande nu, med

Ast og Trw, Hiartad mitt, So þar hviilest þu.
Dijrd, Valld, Virding, og Vegsemd hædst,
Vitska, Magt, Speke og Lofgiord stædst, Sie
þier. O! JESU HErra haar, og Heidur
klaar, Amen Amen, um̃ eiliif Aar,
A M E N.





## Til Lesarans.

MErk þad, ad i þessare Passiu-Psalmaña Edition, Er Texteñ fraa Utleggingune soleidis adgreindur, ad þar sem Textus byriast, stendur þetta Merke †. Og þar sem hañ endast, þetta †.



Registur.

# Registur yfer þessa Passiu-Psalma.

## A.



## E.



## F.



## G.



## H.



## J.





# LXVI. Davids Psalmur /
Ur Latinu epter Buchanano Utlagdur
og i Liood-Mæle uppsettur
Af
## Saal. Hr. Steine Jonssyne
Byskupe Hoola Stiftis,
under þessum Notum.



Heimsins Piood i øllum Attum, frax



Uppgaung Soolar fraũ ad Naattum,



Eja, Lofed HErrañ hætt.

Eja, Sijnged sætum DRottne; so hañs Magt og Nafn ei þrotne, Hefied þad i Himeneñ.

Seiged: Helgur Heims Rædande, hvørsu miøg er Forundrande, Vegsemd Dijrdar Verka þijn.

Hvad stoor er þiñ styrkve Mættur, steipest Fiandmañ a Samdrættur, fyrer Valld þitt vollduga.

O! Þu Fader allra hædste, O! Þu Dijrdar Kongur stædste, Heidre Nafn þitt Himen og Jord.

Hiartad vort þier Heidur sijnge, Af Hug og Mune Losgiord klijnge, Hlijd a þesse Hlioodfære.

Eja, Komed athugande, øll Verk DRotteñs forundrande, giæted ad þeim einka vel.

Þvar

Ydar Fødurs Forsioon mestu, Furdu-Verk og Raaden bestu, þacked aller Pioonar hans.

Ogna Haf han uppþurkade, eingen vard hans Foolke Skade, Botn þess vard ad berre Jord.

Purrum Footum þad i giegnum, Piooden gieck, ad Ovin slegnum, Siooren stood vid Sijdur þeim.

Er hans Stioorn um Eilijfd Aara, Augna DRottens Siooneñ klaara, allar Piooder lijtur liooft.

Ecke lijdur Alls-Raadande, ad med Pverwd moote stande, Drambsamer hans Dijrdar Magt.

Heidred DRotteñ Heimsins Lijder, Heidred DRotteñ allar Tijder, honum Einum Eran ber.

Eirn fra Dauda oss han leyste, eirn gaf vorum Footum Hreiste, eirn oss ollum Lijfed lier.

Eins sem Silfur oss þu reinder ! vor Gud, þa Myskun leinder, Net Ovina egnder oss.

Pwnga uppa oss þu fellder, Of-Sookn Fiandmañaña sellder, setter oss til Hofuds Her.

J Vatn og Elld, Vor Hiartans Herra, hofum geinged, ei liest þverra, Endurnæring oss fyrer þad.

J þitt Hws med Audmiikt alla, eg þvi kiem: Þig bid og kalla, laat mitt Offur þocknast þier.

Hvad eg þier i Hormung miñe, heita giorde ollu Siñe, eg vil feigeñ efna þad.

Eg vil foorna Fienu hreina, fyrer Naut og

Saude eina, Lofgiord Mañs eg læt i tie.

Komed hijngad hættlofande, HErrans Pio-
oder Gud-Elskande, hier sem Otteſt einañ hañ.

Pa til hañs eg hroopa næde, hañ ad mijnum
Bænum gæde, Lof hañs vare uñ Eilijf Aar.

Ef eg hefde Jllt i Siñe, el munder þu giegna
miñe, Bænar-Raust, O! goode Gud.

Eñ þu heyrer HErrañ blijde, Hrooped mitt i
Sorg og Strijde, Nædar-rijkt þitt Eyra er.

O! þeim Fodur allra beſta, eg ſkal fæꝛa Lof-
giord meſta, Bæner mijnar heyrde hañ.

Og mig liet i Anaud miñe, ei Hiælparlauſañ
nockru Siñe, Honum eilijf Æra ſie, Amen.



## Jdranar Psalmur Ur Plijsku Snweñ a Jslendsku.

Ton', Nætturañ øll og Edle Mañs, etc.

D Gud jeg ſkrijd fyrer Augſijn þier, Med
Angur ſaarum Trega, O! Gud þijn My-
ſkun eilijf er, eg medgeing Hiartanlega,
alla þa Synd, og Broteñ blynd, fra Barndo-
oms Æſku miñe, ſem giort hefe eg, og morg eru
miog, Mein ſanga Hiarta og Siñe.

Synder þær ſem mig hefur hendt, Hugan Ma-
ñs ei kañ telia: Po fæ eg DRotteñ þeim ei leyndt,
þvi mig þær æ vallt kvelia, þiñ kiære Son, frar
Synda Smaan, med ſijnum Deyd mig leyſte,

eg

eg gaf Hoggstad, samt epter þad, ad nijtt mijn Satan freyste.

Mitt Ohackleted eirneñ er, allt hijngad til hid stædsta, ieg hefe alldrei packad hier, af Pele Hiertans næsta, Astar Trygd þijn, sem æ nij skijn, nie Elsku og Giæsku þijna, sem ad vid mig, so rijkuglig, Samvitsku slær nu mijna.

Miked Polgiæde og Myskun þijn, margt Aar mig lided hefur, og ressad ecke Afbrot mijn, sem opt þa Syndeñ krefur, Æ! fyr og nær, O! Hyrder kiær, uñ mig i Briooste kiender, þijn Elska og Naad, oll brwkar Raad, ad mier til þijn eg vende.

Orded þitt heilagt hefur þratt, a Hiartans Dyr klappad mijnar, Ande þiñ jafnañ hroopad hatt, Himna Dyr mier ad sijna, þijn Elskañ blijd, hefur Aar og sijd, Ydrunar giort mig beida, med Krosse, Eymd, Pran, Praut stoorre og sma, til þijn mig viliad leida.

Eñ samt jeg giet ei þratt fyrer þad, þo þu rieder mig kalla, eg hef þvi giefed aungvañ Stad, og Eyruñ þad heyrdu valla, fyrer Priootsku Gied, Prælynde med, vid þier eg Hnackañ reide, þo hefur þijn Naad, og þolgood Daad, þyrmt mier eñ glatad eige.

Pu kyñer opt, og þad er von, þo af mier Lijfe svipter, og mier sem einum orgum Pioon, allt i Helvijte steypter, þar ad Aflauts, O! eilisa, trauts, J Saur mig velkte Lasta, samt gaf mier Tom,

ein, þijn Giæskañ froom, giorder ei Refsing hasta.

Nær Hiartad þar, uñ þeinker mitt, þad mæ-tte i sundur sprijnga, og fyrer Uggleysed Angur strijdt, i Merg og Bein sier þreingia, Eingeñ er til, su eilijf Kvøl, ad jeg ei forþient hafe, Overdur er, ad Jordeñ mier, upp-hallde og Næring giefe.

Overdur vijst eg aumur er, ad þijn Skiepna heita meige, eñ verdur ad Heims allur Her, un-der Refsijng mig drage, slijk Yser-Naad, hefur Synden naad, soddañ mæ jeg medkieña, reikn-er þu øll, mijn Afbrot ill, uñ Eilijfd hlijt eg ad breña.

O! Fader, Millden Eilijfleg, ad Footum skr-ijd eg þijnum, hrek ei burt þañ sem hroopar a þig, i Hiartans Angre sijnu, Augunum snæ, i Myskun nu, ad mier, Synd þiaadum Mañe, lijt vid med Naad, Lijfgar mig þad, linar strax Angist miñe.

Astar-Hiartad mier opna þitt, þañ Elsku Bruñ-eñ sæta, gleym miñe Synd, græd Angur mitt, gief mier Lijf mitt ad bæta, med øllu þvi, þier er Pocknan i, þar med hia Vondu sneide, uñs Jeg heim fer, med Eingla Her, J Himna Dijrd og Glede, A M E N.



